# Acta
# Yfirréttarins
á
# Íslandi
fyrir árin 1792=1796.





Leirárgørdum vid Leirá, 1797.
Prentud á kostnad Notarii B. Stephensens,
af Bókþryckiara G. J. Schagfiord.

## Auglýsíng:

Undir eins og þessi Yfirréttar Acta fyrir nærstundangengin 5 ár, gánga nú á prent, ad bodi ens konúnglega danska Cancellíes, sem vill ad þau fyrir hvor 5 ár, bædi fram eptir tímunum og eins fyrir hvor eptirkomandi 5 ár, útkomi í senn, giøri eg hérmed sérhvørium hlutadeganda kunnugt, ad háttþefnt Cancellie hefir þann 4da Júní 1796 nádugast úrskurdad: ad Skrifara-peníngar fyrir Yfirréttarins Prócessa og Dóma, skuli af vidkomendum gialdast eptir Norsku laga fyrirmælum, jafnt og þau áskilia ad gialdast skuli fyrir Yfir-hofréttarins Prócessa og Dóma í Norvegi; hvad hlutadegendur haldi sér fyrir reglu.

Hvitárvøllum, þann 1ta Maí 1797.

B. Stephensen.



# Anno 1792 þann 19da Júlí, var Yfir-réttyrinn settur undir Præsidio Stiptamtmanns O. Stepháns-sonar, med undirskrifudum Assessórer.

## Num. I.

Mætti fyrir Rettinum Sýslumadur í Austur-Skaptafells-sýslu Jón Helgason, og framlagdi Authorisatión til sín af 18da Július, ad agera Delínqventanna søk frá Vestmannaeyium fyrir þessum Yfir-retti, upplesin mót. lit. A. Þar nærst framlagdi Actor Yfir-rettar stefnu af 25ta Maí þ. á., undir nafni Stiptamtmanns O. Stephánssonar og landsins signeti, hvar med, eptir begiering Delínqventauna frá Vestmanuaeýium, Biarna Sigvaldasonar og Biarna Biornssonar, innstefnist fyrir þessa árs Yfir-rett sá af Løgmanni M. Olafssyni, yfir þessum Delínqventer á nærstlidnu Løgþingi, afsagdi Løgmanns-dómur; med sømu stefnu er og Herads-dómarinn Sýslumadur Jón Eiríksson innstefndur ad forsvara genginn dóm í heradi yfir nefndum sakamønnum; þeir siálfir eru og ásamt ødrum vidkomendum innstefndir ad lída endilegann dóm. Uppáskriftirnar



sýna, ad stefnan hefir ǫllum vidkomendum birt verid, hún uppl. nót. lit. B. in dúpló. Sýslumadur B. Thórarinsson mætir, sem Defensor, og framleggur fyrst eina Exceptión undir nafni Lǫgmanns M. Olafssonar, hvarmed hann afsakar sig og próteſterar ad svara her til málsins edur dóm lída, þar sǫkinni se ofſeint innstefnt; innleggid uppleſid nót. lit. C. Annad innlegg framleggur Defensor undir sínu nafni af dags dató, er inniheldur samslags Exceptión, sem hid fyrra, hvar uppá hann begierir Interlócútóríum; Exceptíónin uppleſin og áſkrifud ſub lit. D. Her uppá ſiell svolátandi Yfir-rettarins Alyktun:

Pared ſaka-mennirnir Biarni Sigvaldaſon og Biarni Biørnsſon, hafa í fyrra fyrir Lǫgþíngis-rettinum adſpurdir verid: hvørt þeir vildu appellera frá þeim þá yfir þeim gengna Lǫgþíngis-dómi, og fyrir Rettinum játad ſig med hann ánægda, en þetta ei í tíma apturkallad; þá kann þeirra mál nú af Yfir-rettinum ecki dæmt ad verda, ámóti Forordn. af 18da Febr. 1752, ſamanhoríinni vid Forordn. af 19da Aug. 1735 §. 3. 6. og Forordn. af 19da Mai 1741 §. 5. og 13da Jan. 1747 §. 3. nema þeir þar til ødlíſt Konúnglega uppreiſn. *Actum ut ſupra.*

O. Stephánsſon.

S. Thórarinsſon. M. Stephenſen.
St. Stephenſen. B. Grondal.
L. Gudmundsſon. G. Ketilsſon.

Num.

# Num. II.

Þann 20ta Júlí e. m. ad Yfir-rettinum settum, mætti Sýslumadurinn í Rángárvalla-sýslu V. Thór-arinsson, og framlagdi eitt innlegg undir sínu nafni af dags dató, sem inniheldur Beskyldninger um rettarneitun Sýslumanns Jóns Helgasonar af Austur-Skaptafells-sýslu, í því stógarkyrkju-máli á svo-nefndum Rana, sem her fyrir Lögþíngis- og Yfir-retti hefir í nærstlidin 2 ár verid tracterad. Inn-leggid upplesid nót. lit. M, hvoria fylgia 5 Bilagér, numererte frá 1 til 5 inclús., upplesnar og uppáskrif-adar fyrir Rettinum. Vídara framlagdi Sýslumad-ur Thórarinsson einn Memoríal meddóms-manna Sýslumanns Helgasonar á Rana til Stiptamt-manns Stephánssonar, ad frelsa þá frá yfir-hángandi sári, upplesinn og áskrifadur sub lit. N. Ser til forsvars móti Actors Beskyldningum móti honum, um rettar-neitun í meintu máli, framleggur Sýslu-madur Helgason innlegg undir sínu nafni af 14da hújus, sem upplesid nót. lit. O. Enn nú framlagdi Actor eitt próteft undir nafni Prestsins Sra. Magn-úsar Olafssonar af 13da Apr. þ. á. móti Dóm-ara-Forretníngum af Sýslumanni Helgásyni frem-jandi í þessari sök, upplesid nót. lit. P. Móti þessu framleggur Sýslumadur Helgason innlegg af 16da hújus undir sínu nafni, sem og giörir contra Beskyld-níngar, upplesid nót. lit. Q. Þar eptir lætur hann fylgia kostnadar reiknîng í sökinni, dat. 17da hújus, uppleslnn sub lit. R. Innlegg framleggur Actor, Sýslumadur Thórarinsson undir Sra. Magn-



úsar Olafssonar nafni af 16da húius, sem inniheldur Prestsins røksemdir, hvar fyrir hann se sokinni innvikladur, upplesid og nót. lit. S. Undir straxnefnds Prests nafni framleggur Actor annad innlegg af 19da húius, sem inniheldur Prestsins Beskyldníngar mót Sýslumanni J. Helgasyni, um Rettar-neitun í sokinni, upplesid og áskrifad sub lit. T. Par nærst framlagdi Sýslumadur Helgason innlegg undir sínu nafni af dags datô, sem prótesterar móti því af Sýslumanni L. Gudmundssyni tekna þíngsvitni í þessari sok, upplesid nót. lit. U. Vitnaleidslu Act af 20ta Apr. þ. á. framleggur Defensor, sem Actor prótesterar, sem ólóglegann og vitnandi um Sagvolderens Selvraadighed, upplesinn nót. lit. V. Vídara hofdu ei málspartarnir ad framfæra undir endilegann Dóm, sem sídar verdur af Rettinum afsagdur.

## Num. III.

Sama eptirmiddag framlagdi Sýslumadur Jón Helgason eina Yfir-rettar stefnu í þeirri svo nefndu Rana-sok, úr Austur-Skaptafells-sýslu, undir Stiptamtmanns O. Stephánssonar nafni og landsins signeti, af 19da Júlí nærstlidins árs, hvar med, eptir Sýslumanns Helgasonar begieríng, innstefnist fyrir þessa árs Yfir-rett, til Underkjendelse, sá í sokinni afsagdi Løgþíngis-dómur af sál. Løgmanni B. Markússyni þann 19da Júlí 1790; einnig innkallast med somu stefnu hofundur málsins, Jón Eiríksson á Holtum, sem og Sra. M. Olafsson, vidkomandi og Actor sakarinnar Sýslumadur V. Thórarinsson,

son, allir til ad líða endilegann Yfir-rettar dóm, til sekta og málskostnadar, sem hvörium kann vidkoma, med vídara, er stefnan medfærir, upplesin nót. lit. A. Móti þessari stefnu excíperar Sýslumadur Thórarinsson med innleggi undir sínu nafni af dags dató, sem upplesid og áteiknad nót. lit. B. Her uppá begierir hann Interlócútorium, sem svo látandi var afsagt:

Sýslumadur Jón Helgason hefir, med endurnýiadri stefnu af 19da Júli 1791, fyrir þennann Yfir-rétt innstefnt þeim af Løgmanni B. Markússyni, þann 19da Júli 1790, afsagda Løgþíngis-dómi í skógaryrkiu málinu á Rana, hvar med hérads-dómi Sýslumanns J. Helgasonar í sama, er á hans kostnad aptur í hérad heimvísad, til nýrra og løglegri dómara adgiørda, af ødrum enn J. Helgasyni, sem Yfirvøldin þar til útnefna, þar Sýslumanni Jóni megi ei framar trúa fyrir dómara verkum í þessu máli, fyrir hvørs aflaga adgiørdir hann þar ad auki er í bætur dæmdur; en nú hefir Sýslumadur J. Helgason engann hérads prócess í málinu framlagt, og þó viliad afsaka sig med þeirri Løgþíngisskrifara afbøtun, ad hérads prócessinn sé í fyrra afhendtur, og líklega til Yfir-réttarins innkominn, jafnvel þó Yfir-réttarins Prótócoll votti, ad hérads prócessinn 1790 hafi einúngis fyrir Yfir-réttinum sýndur verid, en 1791 aldrei

 rei

rei á hann minnst; því skal Sýslumadur J. Helgason hafa tapad allri sókn í þessu máli, þángad til hann á ný løglega stefnir því fyrir Yfir-réttinn, og framleggur þar í genginn fullkominn Løgþingis-réttar próceſs, hvar í hérads próceſsinn, svo sem eitt høfud-skial í þessari søk, sé reglulega innfærdur, hvad hiá Løgþingisskrifaranum, sem vandlega á ad geyma þau til Løgþingis-réttarins innkomnu Dócúment, og einúngis af þeim útskriftir ad gefa, er hægt ad ødlast. Fyrir þá mædu, sem Sýslumadur J. Helgason hefir med þessari stefnu málspørtunum orsakad, betali hann til Sýslumanns V. Thórarinssonar, sem egin og Sra. Magnúsar Olafssonar, samt bóndans Jóns Eirikssonar vegna mætir fyrir Yfir-réttinum, 8 rdl. kúrant, sem goldnir séu innan 6 vikna frá þessum degi, undir adfør eptir løgum. *Actum ut supra.*

O. Stephánsson.

S. Thórarinsson. M. Stephensen.
St. Stephensen. B. Grøndal.
L. Gudmundsson. G. Kétilsson.

## Num. IV.

Sama eptirmiddag mætti fyrir Yfir-rettinum Sýslumadur V. Thórarinsson, og framlagdi eina Yfirrettar

tettar stefnu af 6ta húus, undir Stiptamtmanns O. Stephánssonar nafni og landsins signeti, med hvørri innstefnist fyrir þennann Yfir-rett, einn af Løgmanni M. Olafssyni genginn Extra-Løgþíngis dómur undir 15da passati, yfir Delínqvent Einari Grímssyni, til linunar edur upphafníngar; med sømu stefnu er innstefndur constitúeradur Sýslumadur Lilíendal, sem Heradsdómari í sokinni, sem og Delínqventinn Einar Grímsson; allir ad lída endilegann Yfir-rettar dóm, m. v. sem stefnan medførir, uppleiin og áskrifud sub lit. A. Vidkomendur hafa uppá stefnuna skrifad. Løgmadur M. Olafsson giørir þá præliminaire Exceptíón móti stefnunni, ad hún ei antakist gyld, þar Delínqventinn hafi ei strax útþryckilega appellerad, heldur sagt fyrir Extra-Løgþíngis-rettinum, ad hann hieldi sig mega med dóminn ánægdann vera, og sídan engin skrifleg begieríng af Einari framvísud ne hans álitu, hvar fyrir Løgmadurinn uppástendur, ad sokin egi ei her ad uppádæmast. Her í mót uppástendur Sýslumadur V. Thórarinsson, ad Delínqventinn hafi svo vel munnlega, sem fyrir Landfógetans medalgaungu skriflega appellerad, og uppástendur því ad sokin verdi her uppádæmd; sama uppástendur og sá beskickadi Actor, Sýslumadur J. Arnórsson. Hvar uppá fiell þvílík Rettarins álygtun: **ad sokin egi hér bædi ad fyrirtakast og dæmast, þar henni sé løglega innstefnt innan 10da dags frá Extra-Løgþíngis dómsins dató.**

Vidar var pródúcerud Stiptamtmanns Stephánssonar Ordre til Sýslumannanna V. Thórarinssonar

sonar og J. Arnórssonar til ad ageta þessa sök, fyrir þessum Yfir-retti pro & contra; Ordren, af þessa dags dató, upplesin og uppáskrifud nót. lit. B. Enn nú framlagdi Sýslumadur Thórarinsson Heradsog Extra-Logþingis Prócessa og Dóma í þessari sök, gengna, þann eina ad Kálfatiörn þann 16da Maí þ. á. og hinn sídara ad Reykiavík þann 15da Júní nærstlidna, í hvörs slútníngu Delínqventinn er, fyrir begenginn þiófnad, dæmdur til ad kagstrýkiast og erfida í því íslendska Tukthúsi sína lífstíd, m. v. sem Prócessinn medsærir, upplesinn og nót. lit. C. Framar prodúcerar Sýslumadur Thórarinsson eitt innlegg undir Sýslumanns S. Peturssonar nafni af 12ta húius, sem inniheldur hans forsvar fyrir Herads-dóminum, og uppástand móti þeim afsagda Extra-Logþíngis dómi í sökinni; inneggid upplesid og áskrifad sub lit. D. Sýslumadur Thórarinsson, sem Delínqventsins Desensor, uppástendur, ad hann straffist ei hardara enn 2 mánudi í Tukthúsinu, en Actor Sýslumadur Arnórsson uppástendur 2ia ára straff á sama stad. Delínqventinn fyrir Rettinum yfirheyrdur, stendur vid sína ádur giördu medkenníngu, og segist hafa giört þetta af húngurs-naud. Vídara hofdu ei Actor ne Desensor ad framfæra, en Logmadur M. Olafsson begierir og fær Anstand til morguns fyrir middag, ad svara uppá Sýslumanns Peturssonar innlegg.

## Num. V.

Þann 21ta Júlí um Formiddaginn ad Yfir-rettinum settum, mættu enn á ný málspartarnir í þiófs-

sök

fsk Einars Grímssonar frá Gullbríngu-sýslu, og framlagdi Lögmadur M. Olafsson eitt innlegg, sem er hans svar uppá Sýslumanns Peturssonar her. í giær framlagda innlegg, þad, undir hans nafni af dags dató, er upplesid og nøt. lit. E. Vidara høfdu ei partarnir ad framfæra undir endilegann Yfir-rettarins Dóm, sem svoleidis var afsagdur fyrir Rettinum:

Einar Grímsson er ad sonnu yfirbevísadur um ad hafa stolid, af þess vid Vatnsleysustrønd þann 6ta Decembr. 1792 strandada Póstskips gótsi, 100 kokum brauds, 6 pottum brennuvíns og stycki úr segli, frá Kaupmanni Jóhann Petersen, fyrir hvad Lögmadur M. Olafsson hefir med Extra-Lögþíngisréttar dómi, gengnum ad Reykiavík þann 15 Júní næstlidna, dæmt þennann sakamann til húdstroku vid kagann, og æfinlegs erfidis í því íslendska Tukthúsi. En þar ed Prócessinn sýnir, ad þessi Einar í yfirgánganda hallæri, var biargarlaus fyrir sig med konu og 2 hrá-úng born, og þeir stolnu munir hofdu voktunar- og hirdíngar-lausir í lánga tíma útilegid, og vóru þar ad auki af miog litlu verdi, þá kann þeirra taka engannveginn metast svo saknæmur þiófnadur, ad hann dæmast kunni eptir þeim 4da Art. í Forordn. af 20ta Febr. 1789, sé hann vid þann 10da og 11ta Art. í Forordn. af 21ta Martsi 1705 nákvæmlega samanborinn, til húdstroku vid kagann og æfinlegs þrældóms. Þad er og ecki sídur gagn-

 stædt

stædt Tukthúss Fúndatziunni af 3ia Martsi 1784 1 §. No. 1. 2. og hennar hofud tilgángi, sem er líferníis bettan og leidrétting sakamanna, ad nockurr fyrir þesshattar afbrot, dæmist til ad erfida í því íslendska Tukthúsi æfilángt; því er þad nú Yfir-rettarins Dómur:

Ad **Einar Grímsson**, fyrir töku á 100 brandskum, 6 pottum brennuvíns, og stycki úr segli, **Jóhann Petersen** tilheyrandi, skuli erfida 1 ár í því íslendska Tukthúsi, eptir Forordn. af 20tá Febr. 1789 §. 1. og gialda skadabót og vardhalds-laun, samt málskostnad af fémunum sínum, ad svo miklu leiti, sem þeir tilhröckva.

*Actum ut supra.*

O. Stephánsson.

S. Thórarinsson. M. Stephensen.
St. Stephensen. B. Gröndal.
L. Gudmundsson. G. Ketilsson.

## Num. VI.

Sama Formiddag var affagtur svolátandi Dómur í Rettar-neitunar máli Syslumanns Jóns Helgasonar.

Bónd-

Böndinn Jón Eiríksson á Holtum í Austur-Skaptafells-sýslu, hefir med bréfi af 27da Septembr., og aptur munnlega þann 14da Octóbr. 1788, qvartad um fyrir húsbónda sínum, Prestinum Sra. Magnúsi Olafssyni á Biarnanesi, hvorsu hann væri óloglega ásóktur af nábúanum Olafi Magnússyni á Vindbordsseli, med ymislegri óróa vidleitni, og þar á ofan med stefnu fyrirkalli, til ad heyra á vitni og lída dóm fyrir skógaryrkiu í Raudabergs skógi, á svo-kolludum Rana, haustid 1785, medkénnist þó ei annarstadar ad hafa í skógi unnid, enn innan takmarka sinnar ábýlis-jardar Holta, ad margra vitni, sem hann baud sig til ad leida, óskadi því ad Presturinn Sra. Magnús, svo sem Umbodsmadur Kóngs, vildi loglega láta rannsaka þessi vitni og þeirra framburd, um Kóngs-jardarinnar Holta eignar og itaka landamerki, ad svo miklu leiti, sem þessu skógaryrkiu máli kynni vid ad koma, og um átolulausa hefd og brúkun skógarins á fyrrnefndu þrætu-plátsi. Presturinn Sra. Magnús Olafsson, hefir þann 21ta Octóbr. 1788, ádur enn málid kom fyrir Rétt, sendt 2 menn gagngiort til Sysslumanns Jóns Helgasonar, og skriflega krafist af honum þíngdags, til þess ad leida vitni um jardarinnar Holta þrætuskógar takmork, hefd og brúkun, og hardlega afsagt med ollu, ad nockur onnur vitni í þessu máli sér fyrri leidd, miklu sídur dómur afsagdur: þar



uppá hefir Sýslumadur Jón Helgason gëfid skriflegt affvar sama dag, segir þad sé onnur sok, og útheimti adra lagasókn ad þrasa um landamerki, enn ad hondla um framandi manns áverka á landi, sem hann hafi ei rétt til, dæmir svo siálfur fyrirfram ad óprófudu máli, ad allar Jóns Eiríkssonar ástædur muni ósannar reynast, hvoriu til merkis, hann efar, ad á Rana finnist nockur skógar-yrkia giord á nálægum árum, nema í því plátsi, á hvorin Jóni Eiríkssyni sé áverkinn eignadur; heldur þad óhæfu verk ad assegia, ad Dómarinn skuli rétt giora, eptir því, sem málinu henti, eins og Sýslumadur Jón Helgason ætti siálfur ei eptir laganna bodordi ad lifa, einkanlega Nl. 1 — 13 — 9. 15. 1 — 5 — 9 og Forordn. af 3ia Martk 1741 §. 9., og þannig ei einúngis þverneitar hann Prestinum Sra. M. Olafssyni um þingdag og réttarhald í þessu máli, heldur, þegar sá stefndi Jón Eiríksson mætir á þessu leida þingi þann 24da Octóbr., skirskotar skriflega til vitna, og mælir sig undan dómi, þángad til þau séu leidd, fer hann samt þíngum og vitnaleidslum fram, og rekur á dóm sama dag, med hvorium Jón Eiríksson er í hmislegar bætur dæmdur. Med þetta lagabrot er Jón Eiríksson illa ánægdur, og stefnir tédum Sýslumanns J. Helgasonar dómi til Logþíngis-réttarins, sem þann 19da Júlí 1790 vísar honum heim aptur, á kostnad Sýslumanns, til nýrrar ransóknar af

vdrum dómara enn Sýslumanni J. Helgasyni, sem auk bóta og útláta fyrir rángann dóm, er dæmdur þar til óhæfilegur; engu ad sidur tekur Sýslumadur Jón Helgason sér enn þá fyrir, þann 16da og 20ta Apr. þ. á., jafnvel þó Løgþíngis dómurinn standi enn í fullu gyldi, siálfur ad ásmá hann, med því ad taka þá siálfur nýtt próf í málinu, án þess ad heyra enn þá Jóns Eiríkssonar vitni, edur gégna í hinu minnsta ítrekadri skriflegri asfsøgn Prestsins Sra. Magnúsar Olafssonar, af 13da Apr. 1792, ad nockurt próf edur mæling Rana-málinu vidvíkiandi, framfari af Sýslumanni Jóni Helgasyni, hvør affsøgn, vitna uppáskrift og Sýslumanns J. Helgasonar medkénníng fyrir þessum Yfir-rétti sannar, ad hafi honum fyrirfram birt verid. Hvørsu saknæm og óløgleg þessi Sýslumanns Jóns Helgasonar adferd sé, er augliósst, ef þetta hans og undanfarid athæfi í dómaraverkum er samanborid vid Nl. 1—13—9. 15. 1—5—9. og Forordníng. af 3ia Martsi 1741 §. 9.; því er þad Yfir-réttarins Dómur:

Ad Sýslumadur Jón Helgason, skuli, fyrir Prestinum Sra. Magnúsi Olafssyni og bóndanum Jóni Eiríkssyni, í skógar-yrkin málinu á Rana, tvisvar giørda Réttar-neitun og kúg-

 andi

andi réttar-spillir, betala eptir Nl. 1--5--9. 60 lód sylfurs, hvar af Sra. Magnúsi og Jóni gialdast 20, en hin 40 til Landfógetans, innan 6 vikna frá þessum degi, svo framt hann framvegis vilji embættinu halda; sømuleidis skal hann standa allann þann kostnad, sem ný ransókn og dómur í málinu af ødrum óvidkomandi dómara útkrefur, eptir Løgþíngis-réttar dómnum af 19da Júlí 1790, og í málskostnad til Sýslumanns V. Thórarinssonar, innan sømu tídar gialda 30rdli kúrant, undir adfør eptir løgum.

*Actum ut supra.*

O. Stephánsson.

S. Thórarinsson. M. Stephensen.
St. Stephensen. B. Grøndal.
L. Gudmundsson. G. Ketilsson.



Annio

# Annó 1793 þann 19da Júlí, var Yfir-rétturinn settur undir Præsidió Stiptamtmanns O. Stephánssonar, med undirskrifudum Assessórer.

Mætti fyrir Rettinum Sýslumadurinn í Isafiardarsýslu Jón Arnórsson, og framlagdi Authorisatión til sín, ad agera eina Þiófnadar-sök mót Delinqventinden Aunnu Sigurdardóttur af Kiósar-sýslu, uppelsin nót. lit. A. Þar næst framlagdi Actor eina Yfir-rettar stefnu af 8da hújus, undir nafni Stiptamtmanns O. Stephánssonar og landsins signeti, hvar med innstefnist: 1) Løgmadurinn M. Olafsson, til ad forsvara sinn Þann 29da Aug. 1792 ad Bessastødum á Alstanesi, afsagda Extra-løgþíngis dóm, yfir Aunnu Sigurdardóttur af Hausastada þíng-sókn, sem fyrir stuld á nauti undir Olafsskardi 1790, er dæmd ad kagstrýkiast og erfida í Kaupmannahafnar Tukthúsi sína lífstíd. 2.) Sýslumadur S. Petursson og hans 8ta meddóms-menn, til ad forsvara Þeirra, yfir nefndri Aunnu Sigurdardóttur, Þann 7da Febr. 1791, genginn Herads-dóm. 3.) Klausturhaldari Páll Jónsson og Løgrettumadur Biarni Haldórsson, til ad forsvara Þeirra sókn Aunnu á móti í Þessu máli, sá fyrri fyrir Herads- en hinn seinni fyrir Extra-Løgþíngis-rettinum; allir Þessir til ad Þola endilegann Yfir-rettar dóm. 4.) Stefnist saka-

persónan Aunna siálf til ad mæta, med sinn forsvari og lída dóm uppá verdskuldad straff, fyrir þann framda nauts-þiófnad, hvad stefnan allt framar sýnir, upplesin nót. lit. B. Var svo upplesinn sá, ad Bessastödum, þann 29da Aug. 1792, gengni Extra-Lögþíngis Próceß og dómur, yfir saka-persónunni Aunnu Sigurdardóttur í þessu máli, í hvörs slútníngu hún, fyrir sinn framinn nauts-þiófnad, er dæmd til ad kagstrýkiast, samt ad erfida í Kaupmannahafnar Tukthúsi sína lífstíd; dómurinn upplesinn og uppáskrifadur nót. lit. C. Actor uppástendur, ad þessi dómur verdi af Yfir-rettinum stadfestur, þar Aunnu egi hvörki ne megi hiна minnsta bót mæla í þessu hennar qualificerada þiófnadar-máli. Saka-persónunnar tilskikadi forsvarsmadur, Sýslumadur S. Finnsson, mætti í Yfir-rettinum fyrir innlegg af þessa dags dató, upplesid og uppáskrifad nót. lit. D, í hvöriu hann uppástendur, ad henni siáist vægd fyrir kagstrýkíngunni, en dæmist alleina til erfidis um nockurra ára tíma í því íslendska Tukthúsi, þar hún, vegna öyndis úrræda, þá peníngum fødur síns týnt og tapad hafdi, hafi rádist í ad stela nauti undir Ólafs-skardi, og fært þad fødurnum í stad peníngánna, hvar fyrir hún hvörki hafi sókt ábata ne hagsmuni fyrir siálfa sig, heldur gripid til þessara öyndis úrræda til ad umflýia fødursins óblídu. Lögmadurinn M. Olafsson framleggur einnig innlegg af þessa dags dató, í hvöriu hann uppástendur sinn Extra-Lögþíngis dómur verdi af þessum Yfir-retti í alla stadi confirmeradur, hvörn hann hafi grundad á Forordn. af 20ta Febr. 1789 §. 4. Innleggid upplesid og uppáskrifad nót. lit. E. Saka-per-

ſönan Anna Sigurdardóttur fyrir Rettinum examínerud, játar nú, ſem fyrri, ſig ſtolid hafa 2vetru nauti ùndir Olafs-ſkardi árid 1790, og færir ſer eckert til málsbóta annad enn hér ad framanverdu er ádur innfært, ad hún hafi týnt peníngum þeim, er fadir hennar hafi fengid henni til ſkinns og ullar innkaupa, í hvørra ſtad hún hafi þetta ſtolna naut fært heim til heimilis foreldra ſinna, ſem þar hafi verid drepid af fødur og bródur ſínum, med ſínum og módur ſinnar tilſtyrk. Partarnir adſpurdir, hvørt fleira hefdu fram ad færa undir endileganu dóm? ſvørudu: nei! hvørr ſvo látandi var þeſsvegna af Rettinum aſſagdur:

Anna Sigurdardóttir ſkal, fyrir medgenginn og fullſannadann þiófnad á 2vetru nauti undir Olafs-ſkardi, árid 1790, eptir Forordn. af 20ta Febr. 1789 §. 4. kagſtrýkiaſt og erfida í Tukthúſinu ſína lífstíd; en hvørt heldur hér í landi edur á Kriſtiánshofn, bídur Hans konúnglegu Hátignar allranádugaſtu úrlauſnar, til hvørrar Præſes þeſſa Yfir-réttar géfur til vitundar, ad allraundirdánuguſt fyrirſpurn ſé framſend, vidvíkiandi qvennfólki, ſem dæmiſt til



kagstrýkingar og æfinlegs Tukthúss erfidis; en ámedan svár ei innkémur, erfidi hún í því íslendska Tukthúsi.

*Actum ut supra.*

O. Stephánsson.

M. Stephensen. St. Stephensen.
B. Stephensen. V. Thórarinsson.
G. Ketilsson. I. Espólín.



Annó 1794 þann 21ta Júlí, var Yfir-rétturinn settur undir Præsidió Amtmanns S. Thórarinssonar, í forföllum Hra. Stiptamtmanns O. Stephánssonar, med undirskrifudum Assessórer.

Num. I.

Mætti fyrir Rettinum Sýslumadur V. Thórarinsson, og framlagdi eina Yfir-rettar stefnu, útgefna undir Hra. Stiptamtmannsins hendi og landsins innsigli, þann 15da Martsí nærstlidna, med hvörri stefnast, af Landfógetanum S. Magnússyni, Lögmadur M. Olafsson, til ad forsvara sinn, þann

17da

17da Júlí 1793, assagda Løgþíngis-rettar dóm og allar dómara adgiørdir í einu máli, er Landsfógetinn og Sýslumadur V. Thórarinsson høfdu stefnt Sýslumanni S. Finnssyni fyrir Løgþíngis-retti ad forsvara, vidvíkiandi hans forsómun og adgiørdaleysi vid sterfbús-skipti sál. Landphysicí B. Pálssonar, frá 7da Aug. 1787 til 28da Nóvembr. 1791, ásamt ødru, er siálf stefnan framar sýnir; líka svo stefnist Sýslumadur S. Finnsson til ad forsvara sinn framgángs-máta fyrir Retti í þessu máli, m. fl., og Sýslumadur S. Petursson, til ad forsvara sinn í Heradi genginn dóm, og allir þessir til ad heyra ákiærur og lída endilegann Yfir-rettar Dóm, til sekta og málskostnadar, líka svo til þeirra assøgdu dóma upphafníngar, etc. Stefnan upplesin og áteiknud lit. A. Því nærst framkom Løgmadur M. Olafsson fyrir Yfir-rettinn med innlegg af dags dató, med hvøriu hann prótesterar ad svara her nú til þessa máls, þared sinn assagdi Løgþíngis-rettar dómur, hafi eptir Forordn. af 19da Aug. 1735 og Forordn. af 18da Febr. 1752 yfirstadid Fatalía appellatiónis ádur enn ad Yfir-rettar stefna var yfir honum útgefin, og kunnt því ei ad áteliast nema med konúnglegri uppreisn, krefst því ad Retturinn tildæmi ser af Landsógeta S. Magnússyni 10 rdli. kúr. í málskostnad, kost og tæríng; innleggid var upplesid og áteiknad nót. lit. B. Sýslumadur V. Thórarinsson uppástendur, ad málid verdi nú af Rettinum fyrirtekid, þar Landsfógetanum se ei yfirbevísud nein forsómun vid þess innstefníngu; Løgþíngis-rettarins Acta hafi hann fyrst medtekid seinast í Septembr. eda fyrst í Octóbr. 1793,

 hann

þann 6ta Octóbr. beidst stefnu, sem siálf sýni ad hún se vidkomendum í tíma auglýst; Løgmadurinn svarar þar til: ad hafi hann ecki forsómad ad beidast stefnunnar í tíma, þá hafi hann þó forsómad í tíma ad vitia Prócessins til Løgþingisskrifarans, heldur sig því til síns ádurgiørda prótests, en bádir málspartarnir óska her uppá Rettarins Urskurdar, sem fiell svoleidis:

Þad er hvørki upplýst, nær Løgþingis-réttarins dómur af 17da Júlí 1793 hafi verid fyrrum Landfógéta S. Magnús-syni løglega auglýstur, svo þadan í frá teliast kunni til þess tíma, er Landfógetinn, eptir Forordn. af 18da Febr. 1752, hefdi átt ad hafa þessu máli innstefnt fyrir Yfir-réttinn, þó ad áminnst kóngleg Tilskipan útþryckilega bióði: ad Appellatións tímann skuli reikna frá dómanna auglýsingum, og þeir þessvegna þar uppá stýlast, né heldur verdur sannad, ad N. 1—6—12 sé med áminnstri Forordn. ellegar annari af 19da Aug. 1735, sem hér í landi ecki eru auglýstar, upphafinn, svo ad Fatalía fyrir innstefningu Løgþingis dóma séu nú fyrri enn med ári og degi á enda. Því skal þetta, af Landfógeta S. Magnússyni, fyrir Yfir-réttinn innstefnda mál, í hvørs framhaldi honum engin yfirsión edur forsómun yfirbevísud er, nú af Réttinum fyrirtekid og dæmt verda, og þeir innstefndu málspartar skyldugir vera, eptir þeirri í máli inn útgéfnu Yfir-réttar stefnu, ad mæta og lída dóm.

Fram-

Framlagdi því nærst Sýslumadur V. Thórarinsson: 1) Til eptirsiónar þann í þessu máli gengna Herads prócess og dóm. 2) Løgþingis prócess og dóm í sama máli, med hvørium Sýslumadur S. Finnsson er fríadur fyrir allri ákiæru, en Landfógeti S. Magnússon dæmdur ad betala til Sýslumanns Steindórs 6 rd. m. fl., sem sami prócess og dómur framar sýnir, uppslesinn og áteiknadur, nót. lit. C. Landfógeti S. Magnússon framsendir til Rettarins innlegg af 8da þ. m., sem er hans málssóku og ákiærur, þad uppslesid nót. lit. D. Løgmadur M. Olafsson framlagdi og annad af dags dató, sínum áfsagda Løgþingis dómi til forsvars, óskandi ad hann yrdi stadfestur, en ser af Yfir-rettinum tildæmdur málskostnadur 10 rdlr. krón., uppslesid áteiknad nót. lit. E. Og endilega framsendir Sýslumadur S. Finnsson eitt innlegg af 18da húius, hvar í hann refererar sig til þeirra af honum fyrir Løgþingis-rettinn í fyrra innsendu innleggia, prótesterar øll nú dókúment edur bevísíngar fyrir Yfir-rettinum framlagdar, samt uppástendur Løgþingis dóminn af 12ta Júlí í fyrra, af Yfir-rettinum stadfestann, og ser af Landfógetanum tildæmdann ánægilegann prócess kostnad fyrir þessum retti, innleggid uppslesid, nót. lit. F. Meira høfdu ei partarnir fram ad færa í þessari søk; hvør þess vegna var til endilegs dóms upptekin.

## Num. II.

Sama dag framlagdi Sýslumadur V. Thórarinsson, adra Yfir-rettar stefnu af 15da Martsí 1794

 undir

undir Hra. Stiptamtmanns O. Stephánssonar hendi og landsins innsigli: 1) Til Lögmanns M. Olafssonar, til þess ad forsvara einn af honum þann 22ann Júlí 1793 afsagdann Lögþíngis dóm, med hvörium Landfógeti S. Magnússon er dæmdur ad betala Sýslumanni S. Finssyni í málskostnad fyrir Reykiavíkur Herads-retti þann 22ann Januarí 1792 í sterfbús máli Landphysici B. Pálssonar 25 rdli. og Sýslumadur S. Petursson í málskostnad til Lögþíngis-rettarins nefndum Sýslumanni Steindóri 6 rdli., hvörn Lögþíngis dóm Landfógetinn og Sýslumadur S. Petursson stefna Lögmanninum ad forsvara, og med Yfir-rettar dómi upphafinn ad heyra. 2) Til Sýslumanns S. Finnssonar, ad forsvara sína málssókn og alla atferd vid þetta mál, en bádir ad lída Yfir-rettar dóm til málskostnadar útláta auk annara sekta, er stefnan siálf ávíkur, upplesin og áteiknud lit. A. Því næst var framlagdur Lögþíngis-rettar Prócess og dómur, genginn þann 22ann Júlí 1793, med hvörium Landfógeti S. Magnússon er dæmdur ad láta úti 25 rdli. í málskostnad til Sýslumanns S. Finnssonar, fyrir þessa ádur áminnsta málssókn í Heradi þann 28da Janúari 1792, og Sýslumadur S. Petursson, í málskostnad til Lögþíngis-rettarins 1793, 6 rdli. til sama Sýslumanns S. Finnssonar, hvad nefndur Prócess og dómur framar sýnir, upplesinn og áteiknadur lit. B. Framkom svo innlegg Landfógetans S. Magnússonar af 9da þ. m., innihaldandi hans ákiærur mót ádurgreindum Lögþíngis-rettar dómi og kröfu um dómsins upphafníngu, málskostnadar og adrar bætur, hvört

hvørt upp var lesid og áteiknad lit. C. Danskt innlegg frá Sýslumanni S. Peturssyni var í Rettinni frambodid, en þar þad ecki er skrád í því íslendska máli, en þó af einum innfæddum Íslending, svo var því, svo sem öløgskickndu skiali, af Rettinum frávísad, uns Sýslumadur S. Petursson annadhvørt siálfur, edur hans Fullmecktugur innan þessara mála-loka framleggia þad aptur á íslendskn og løglegar undirbúid. Innlegg af þessa dags dató frá Løgmanni M. Olafssyni, var þar eptir framlagt, med hvørin hann forsvarar sinn afsagda Løgþingis-rettar dóm, og beidist ad hann stadfestur verdi, en ser málskostnadur tildæmdur, ásamt kosti og tæríngu, med 10 rdlm. af hvørium stefnandanum fyrir sig, þad var upplesid og áteiknad. lit. D. Loksins framkom innlegg Sýslumanns S. Finnssonar af 18da þ. m., med hvørin hann óskar Løgþingis dómurinn verdi stadfestur, en gyldur málskostnadur ser til handa dæmdur af stefnendunum, var þad og upplesid og áteiknad lit. E. Annad hofdu málspartarnir ecki ad framfæra í sókn edur vørn, var því málid til dóms upptekid.

## Num. III.

Sama eptirmiddag mætti í Yfir-rettinum Sýslumadur G. Ketilsson, og framlagdi skickun Hra. Stiptamtmanns O. Stephánssonar af 5ta Aug. 1793, til ad innstefna fyrir landsins Yfir-rett og ákiæra vegna Kaupmannanna: Bergmanns, Deickens og Klemensens, einn af Sýslumanni S. Peturssyni þann 24da Júní 1793 afsagdann, og apt-



aptur þann 29da Júlí s. á. af Løgmanni M. Olafs-
syni med Extra-Løgþíngis dómi stadfestann Herads
dóm, í einni mót Bakara H. Scheel høfdadri
giald-sök; Stickunin uppleſin og áteiknud lit. A. Líka
svo Yfir-rettar stefnu af 2rum Januarí þ. á, undir
Hrá. Stipta-ntmannsins hendi og landsins innsigli,
med hvørri nefndir Dómarar inukallast, til ad for-
svara þeirra Herads- og Extra-Løgþíngis-dóma; hvør-
ium stefnandinn Sýslumadur G. Ketilsson til
upphafníngar innstefnir; líka einninn er fyrir þenna
Rett kalladur H. Scheel, sem sakar adili, og vegna
málspartsins í Heradi Kapitaine Jørgensens hon-
um settur talsmadur, Sýslumadur V. Thórarins-
són, til ad forsvara þessa málsókn frá því fyrsta til
hins sídasta; allir innstefndir málspartar ásamt Dóm-
urunum til ad lída endileganu Yfir-rettar dóm, til
bóta, málskostnadar og annara sekta; stefnan uppleſin
áteiknast lit. B. Sýslumadur V. Thórarinsson
lagdi í Rettinn Hra. Stiptamtmanns O. Stepháns-
sonar skickun til sín af 8da Aug. 1793, ad veria
þetta mál fyrir hønd Kapitaine Jørgensens, hún
uppleſin áteiknud lit. C. Framkom því nærst stefn-
andinn Sýslumadur G. Ketilsson med þá í þessu
máli ádur umgetnu Herads- og Extra-Løgþíngis Pró-
cessa og dóma, med hvørium Kapitaine Jørgensen
er tildæmt fyrsta tilkall til skuldalúkníngar af Scheels
búi, nærst eptir públik skuldaheimtur, er á því lán;
en Borgaranna Bergmanns, Dedickens og
Klemensens krøfur, frá sama retti útiluktar, og
þessir med Extra-Løgþíngis dómi skyldadir ad borga
8 rdli í málskostnad til hlutadeigandi málsparta; þessir
Pró-

Próceſſar og dómar upplesnir, áteiknaſt lit. D. Lögmadur M. Olafsſon framleggur innlegg af þeſſa dags dató, med hvöriu hann uppáſtendur ſinn dóm ſtadfeſtann, og ſer tildœmdann málskoſtnad, koſt og tœringu m. fl. med 10 rdlm. af hvörium ſtefnandanna; þad var uppleſid og áteiknad lit. E. Dönſk innlegg vóru frambodin af Syſlumönnunum V. Thórarinsſyni og S. Petursſyni ſamt Bakara Scheel, hvar Syſlumadur Vigfús hafdi á hendi ad framfœra: en af því, ad Yfir-retturinn finnur þad rettu laga-formi gagnſtœdilegt, ad jafnvel ſiálfir innlendir blandi ómislegum túngum í þeirra laga-deilur fyrir íslendſkum Rettum, ſem einúngis í módurmálinu ega ad framfara, og engu heldur vid Rettina ad medtakaſt á danſka enn adrar ókenndar túngur, og ad því þar hiá adgœttu, ad þeſſi innlegg med ólöglegri og óleyfilegri lengd, þvert ámóti Nl. 1---9--10. einúngis vildu orſaka landſins Yfir-retti óþarfa umſvif og uppihald, þá leggur Retturinn vidkomandi málspörtum í ſiálfs vald, annadhvört med ſtuttum og greinilegum innleggium á íslendſka túngu ad ſækia og veria þetta mál, ellegar og ad framfœra alla naudſynlega ſókn og vörn þar í munnlega, hvört heldur þeir girnaſt nú ſtrax, edur ad morgni komanda um midiann dag. Partarnir girntuſt og fengu freſt til morguns, ad þ ſſu fyrir þeim uppleſnu. Actum ut ſupra.

S. Thórarinsſon.

M. Stephenſen. St. Stephenſen.

B. Gröndal. B. Stephenſen.

L. Gudmundsſon. J. Arnórsſon.

D. Num.



# Num. IV.

Þann 22ann Júlí ſafnadiſt Yfir-retturinn aptur, undir Amtmanns S. Thóráarinsſonar Præſidió, med ſømu Aſſesſórer, mættu ſvo þeir ſømu málsparter í því mót Bakara Scheel hingad innſtefnda ſkulda-máli. Framleggur ſvó Sýſlumadur V. Thóraarinsſon eina Yfir-rettar contra-ſtefnu af 12ta Maí 1794 undir Hra. Stiptamtmanns O. Stephánsſonar hendi og landſins innſigli, til Borgaranna í Reykiavíkur Kaupſtad, Th. Bergmanns, F. Odickens og R. Klemenſens, 1) Til ad forſvara þeirra málsſókn fyrir Herads- og Extra Løgþíngis-rettum. 2) Forbod til Heradsdómarans S. Peturssonar, ad útleggia nockurn betalíng til Jørgenſens af þeim fyrir Scheels bú innkomnu peníngum, og til ad bæta þesſum Jørgenſen þann her af orſakada ſkada. 3) Til ad þola Yfir-rettarins Dóm til ſkadlauſs málskoſtnadar; ſtefnan var upplesin og áteiknud lit. F. Sýſlumadur G. Ketilsſon lagdi í Rettinn innlegg af 21ta hújus, vegna høfud-ſtefnandanna, og uppáſtendur, ad málinn verdi, til nýrrar fyrirtektar í Heradi, aptur heimvíſad, hvad inleggid giørr ſýnir, upplesid og áteiknad lit. G. Enn framar, ad verdi nú málid her endilega dæmt, þá ad adal-ſtefnendurnir megi eptir tiltøln nióta jafnadar betalíngs med Jørgenſen af Scheels búi, ad því leiti, ſem afgánga kann públík krøſum. Vegna mótſtefnandans Jørgenſens, framlagdi Sýſlumadur V. Thóraarinsſon innlegg af dags dato, í hvøriu hann leitaſt vid ad ſanna Jørgenſens løglegann fyrſta til-

tilkalls-rett til skuldalúkníngar af Scheels búi, næst eptir þær públiqve krøfur, ad adalstefnendurnir, dæmist í bætur og málskostnad, og ad þeir ádurgengnu dómar í málinu verdi stadfestir m. fl., sem innleggid útskírir, uppleysid og áteiknad lit. H. Þanninn framfært og undirbúid, leggia partarnir sameiginlega þetta mál undir Yfir-rettarins endilegann Dóms úrskúrd. Vóru svo uppsagdir eptirfylgiandi Dómar, í framansóktum þremur Yfir-rettar málum:

1) Í sterfbús-skipta forsómunar málinu.

Landfógeti S. Magnússon, hefir fyrir Yfir-réttinum ákiært einn af Logmanninum sunnann og austann M. Olafsyni þann 17da Júlí 1793 genginn Logþíngis-réttar dóm, med hvorium Sýslumadur S. Finnsson er stefndur fyrir Logþíngis-rétt af Landfógetanum fyrir hiáhlidrun og forsómun í skipta fullkomnun eptir Landphysicum Biarna Pálsson frá 7da Aug. 1787 til 28da Nóv. 1791, og eins þá dómur féll, uppá þær Landfógetanum gésnu ákiærur, var fríadur fyrir ollu tiltali í því máli, og eins eptir þeim 2rum pósti af Logþíngis-réttarins stefnu, frá tilsvari óvissra og óinnkalladra skulda þessa sterfbús, fyrir hvorium Landfógetinn þó vildi, ad Sýslumadurinn yrdi dæmdur í an- og til-svari; vid-gégnumskodun þess í sterfbús-málinu frá 26ta Maí 1791 til 28da Jan. 1792, géngna Hérads prócess og dóms, líka og þeirra til Logþíngis-réttarins innkomnu skilríkia, finnur Yfir-rétturinn all-

 vida



vïda: ad eins opinber, og sú hindrun og þad
uppihald er, sem Landfógeti S. Magnússon
hefir giört Skipta-réttinum med sinu haldi á
sterfbúsins eignum og skiölum, siálfrædisfullri
medferd þeirra, og loksins útvist frá Skipta-
réttinum, svo ördugt vill Sýslumanninum S.
Finnssyni veita, med gyldum rokum og á-
stædum, ad hreinsa sig frá seinlætis brixli vid
skiptanna adgiördir og málssókn, móti Land-
fógeta S. Magnússyni; hvör honum var
þann 28da Octóbr. 1789 á hendur falin, en
þó fyrst fyrir Rétti hreifd þann 26ta Maí
1791, eptir meir enn hálft annad ár, med
hverju ásamt ödru seinlæti vid skiptin, þeim
og orsakadist ærid uppihald. Finnur því Yf-
ir-rétturinn sanngiarnt, ad beggia þeirra yfir-
sjónir í þessu, dragist til jafnadar eptir mála-
vöxtum; og dæmir því rétt:

Ad fyrrum Landfógetinn Skúli Magnússon og Sýslumadur Stein-dór Finnsson, skuli hvørr fyrir annars ákiærum út af þeirri hindrun, er þeir bádir orsakad hafa skiptanna fullkomnan í sterfbúi Landphysici B. Pálssonar friir vera. Logþíngis-réttarins dómur af 17da Júlí 1793 og þar í dæmdur 6 rdla málskostnadur af Landfógeta Skúla til Sýslu-

Sýslumanns Steindórs, er því hér med uppháfinn, en málskostnadi til Yfir-rettarins í þetta sinn fráfallid.

2) Í málskostnadar-málinu milli Landfógeta Skúla, Hérads-dómara S. Péturssonar og Løgmanns M. Olafssonar.

Med Hérads dómi af 28da Janúarí 1792, gengnum ad Reykiavik, hefir Hérads-dómari í Gullbríngu-sýslu S. Pétursson frádæmt Sýslumanni Steindóri allann málskostnad, fyrir þær, mót fyrrum Landfógeta S. Magnússyni eptir Stiptamtmanns Levetzows, á þess konúnglega Cancellies bodi grundadri skickun af 28da Octóbr. 1789, hefdudu laga ákiærur, vegna Sýslumanns Steindórs linleika í sókn eins máls, vidvíkiandi þeim af Landfógetanum orsøkudu hindrunum í skiptafullkomnun eptir Landphysicum B. Pálsson, og innihald þess sémuna, líka og vegna Sýslumanns Steindórs seinlætis í hans Skiptarettar haldi. Med Løgþíngis-réttar dómi af 22rum Júlí 1793, hefir Løgmadurinn M. Olafsson tildæmt aptur Sýslumanni Steindóri þann honum ádur frádæmda málskostnad med 25 rdlr. af Landfógeta Skúla, hvarvid hann, auk þessa, bætt hefir 6 rdlr. af Hérads-dómarans álfu í málskostnad til Løg-

 þíng-

Þíngis-réttarins 1793 Sýslumanni Steindóri til handa, végna þess ádur umgétna Sýslumanni Steindóri mótfallna Hérads dóms. Ad Sýslumanni Steindóri beri nockud í máls-kostnad fyrir sína, enn þótt sártregu og seinlátu lagasókn móti Landfógetanum, er eins sanngiarnlegt og hitt má virdast løgum gagnstædt, ad Landfógeti Skúli einn greidi honum borgun fyrir þær annars litlu adgiordir hans vid sterfbús-málid, medan hann vid þad féckst, hvad þó tilætlad er, ad ráda af þeim drúnga kostnadi, er Logmadurinn hefir Sýslumanni Steindóri tildæmt, án þess ad hann nockurntíma inngæfi kostnadar reikníng fyrir siálfa málssóknina, því skipta-launin vóru sterfbúinu en ei Landfógetanum vidkomandi. Þared nú Logmadur M. Olafsson hefir ei medtekid, edur látid til Réttarins inngéfa neinn kostnadar reikníng fyrir þessa málssókn, þá sier Yfir-réttur-urinn ecki, hvad hann kunni hafa hrært til þess án frekari ransóknar, strax ad tildæma Sýslumanni Steindóri þá nú hiá Landfógetanum og Hérads-dómara Sigurdi heimtada máls-kostnad, eptir einberri Sýslumanns Steindórs ósk, og verdur því einkum í tilliti til þessa embættis-manns seinlátu adgiorda vid skiptin og málssóknina ad meta þenna Logþíngis dóm um málskostnadinn midur grundvalladann enn vera bæri; og dæmist því hér med rétt:

Log-

Logþíngis-réttarins dómi af 22um Júlí 1793, med hvørium Sýslumanni S. Finnssyni er tildæmdur málskostnadur 25rdlr. af Landfógeta S. Magnússyni, og 6rdlr. af Hérads-dómara S. Péturssyni, er hér med frófallid, en Landfógeti Skúli lúki Sýslumanni Steindóri fyrir málsókn honum ámóti í Héradi eina 4rdli., og Hérads-dómarinn, fyrir heldur hardann dóm, vidvíkiandi Sýslumanns Steindórs málskostnadi, 2rdli.; en orsakadann kostnad til þessa Yfir-réttar, bæti Lögmadur M. Olafsson Landfógeta S. Magnússyni med 5 rdlm. kúr.; skal allt þetta lokid vera til réttra vidkomenda innan 8ta vikna frá löglegri auglýsíngu þessa Yfir-réttar Dóms, undir adför eptir lögum.

3) Í skulda tilkalls-máli hiá Bakara H. Scheel.

Fyrrverandi Tukthúss Oeconómus, nú Bakari H. Scheel, hefir, eptir þad hann ádur þann 12ta Júlí 1790 var búinn ad pant-
setia

setia allt sitt góts og eignr til þess kóngl. Eckiu-kassa, á ný útgéfid adra pantsetníngu á somu eigum til Kaupmanns Isaaksens, þann 1ta Aug. 1792; þessa frambaud Skipherra Jørgensen fyrir Isaaksens hond, til uppleßurs og þínglýsíngar á Reykiavíkur Hérads-þíngi þánn 7da Maí 1793, og Hérads-dómari S. Péturssón medtók hana þar til þínglýsíngar, þó hann af Logþingis-bókinni 1790 ádur vita mætti, ad hans fyrrgiorda pantsetníng á ollum hans þáverandi og vænntanlegum eigum væri þar, ad forlagi hins kóngleg a Rentukammers, þínglýst, og auk þessa, sem embættis-madur: 1) ad allar Scheels eigur, sem Oeconómí vid Tukthúsid, hvar hann stód fyrir kóngleg rár stiptunar reikníngum, stódu í panti, eptir Kammer-rettarins Ordu af 18da Martsi 1720. 2) Ad eptir hinni somu og Forordn. af 9dá Júní 1696 samanborinni vid Forordn. af 23ia Febr. 1748, máttu engar Dómara adgiordir framfara á móti Scheel, nema ad ádur fengnu leyfi eins kóngleg a Rentukammers, enn sídur nýiar pantsetníngar, sem eptir Nl. 5—3—26. 5—7—15. 5—13—52 eckert annad gátu verkad, enn æru og frelsis-tión Scheels, medtakast vid Réttinn án þvílíks leyfis, né Isaaksen uppá svo ólogmætann grundvoll tildæmast pants og fyrsta tilkalls-réttur næst eptir públík krosur. Þessvegna er þad meir enn almenniteg vogun, ad Hérads-dómarinn dirfist ad fráwísa 3gia

Borg-

Borgara beidni, er fyrir hans Rètt framkoma á Hèrads-þingi ad Reykiavík, ádurenn þetta skulda-mál var til dóms upptekid, med hvørri þeir krøfdust af honum frests, til þess ad gèta logsókt Scheel, játandi ad þeir ei fyrri enn þá, hefdu leidt sèr í hug, ad adrar enn públík krøfur ættu þá ad dæmast og metast, sem ei heldur var von, eptir fyrr áminnstum konúnglegum Forordníngum og laganna fyrirmælum, ennþótt Hèrads-dómurinn útþryckilega votti, ad Kaupmanni Ísaaksen sè uppá svo grundvallarlausar ástædur tildæmdur forrèttur til skuldalúkníngar af Scheels búi, en Borgaranna Bergmanns, Dedickens og Klemensens krøfum frávísad, án þess ad þeim veittist nockurr frestur til ad logsækia Scheel, hvad og med hrodum Dóms árekstri þann 24da Júní 1793 var afskorid. Þennann aflaga Rèttargáng og ójofnud átøldu því Borgararnir Bergmann, Dedicken og Klemensen fyrir Extra-Logþíngis-rètti Lögmanns M. Olafssonar, hvørr þó, án þess ad adgæta framantøld laga og forordnínga bodord, þann 29 Júlí nærst eptir stadfestir tèdann Hèrads-dóm, og auk þessa dæmir stefnandana í kostnadar-bætur; en eins og ad Yfir-rètturinn ecki finnur loglegt, ad tileinka þeirri til Ísaaksens þann 1ta Aug. 1792 giørdu pantsetníngu, nockurn pants-rètts mátt edur gyldi, eptir margnefndum forordníngum og laga-póstum, svo óniærka verdur hann ad álíta þá í málinu ádurgengnu

E dóma,

dóma, sem áskilia Isaaksen For-rétt til skuldaskúfníngar af Scheels búi, vegna þessarar sídargiordu pantsetníngar, og sem útiloka Bergmann, Dedicken og Klemensen frá sama tilkalls og jafnádar-rétti til borgunar; því dæmist rétt:

Þeir af Hérads-dómara S. Péturssyni þann 24da Júní, og Logmanni M. Olafssyni þann 29da Júlí 1793 ad Reykiavík gengnu Hérads- og Extra-Logþíngis dómar, skulu vera og álítast daudir og maktarlausir, og hvørki koma Kaupmanni Isaaksen til nockurs gagns, né heldur Borgurunum Bergmann, Dedicken og Klemensen til skada og afdráttar í þeirra krøfum mót Bakara Scheel í nockurn máta, heldur skulu þeir allir fiórir med jøfnum rétti vid adra skuldaheimtu-menn, mega løglega innkalla sínar skuldir hiá Scheel, hvørs til Isaaksens þann 1ta Augústi 1792 giørda pantsetníng, svo sem ólogleg, ei skal neinn For-rétt hafa mega ødrum skuldum fremur. Máls-kostnad til Extra-Logþíngis-halds standi Hérads-dóm-

dómarinn, eptir Løgmanns M. Olafssonar løgum samqvæmum reikníngi, og afgreidi hann til Bergmanns, Dedickens og Klemensens, svo framt þeir allareidu hafi ei fullnægt Løgmanninum hér fyrir, annars til Løgmanns Magnúsar siálfs; en málskostnad til þessa Yfir-réttar gialdi Løgmadur M. Olafsson til nefndra 3gia Borgara og adal-stefnanda med 10rdlm., og fyrir ógrundadann dóm til Júštits-Kassans, Løgmadur Magnús 4rdli., en Héradsdómarinn S. Pétursson 1 rdl. eptir Forordn. af 23ia Decembr. 1735 og Anordníng. af 16da Nóvembr. 1764. Þessu øllu skal fullnægia innan 8 vikna frá þessa Dóms løglegri auglýsíngu, undir adfør eptir løgum.

*Actum ut supra.*

S. Thórarinsson.
M. Stephensen. St. Stephensen.
B. Grøndal. B. Stephensen.
L. Gudmundsson. J. Arnórsson.



Sýslumadur V. Thórarinsson declarerar Appell frá þessum sídasta dómi, ásamt Lögmanni M. Olafssyni. *ut supra.*
*testerar* B. Stephensen.



Annó 1795 þann 21ta Júlí, var Yfir-rétturinn settur undir Præsidió Amtmanns S. Thórarinssonar, og í hans uppákomandi forføllum Amtmanns Vibes, ad Hra. Stiptamtmanns O. Stephánssonar þar um giørdu undirlagi, ásamt med undirskrifudum Assessórer.

## Num. I.

Mætti fyrir Yfir-rettinum Sýslumadur V. Thórarinsson, og framlagdi eina Yfir-rettar stefnu, undir nafni Hra. Stiptamtmanns O. Stephánssonar og landsins signeti af 8da Janúarí þ. á. hvar med stefnast: 1) Vice-Løgmadur B. Grøndal, til ad forsvara sinn affagda Løgþingis-rettar dóm, þann 24da Júlí nærstlidins árs, í Løgmanns-tolla máli, milli Eckju Løgmannsins sál. B. Markússonar og Løgmanns M. Olafssonar. 2) Sýslumadurinn

urinn í Kiósar-sýslu S. Peturssón í sama máta, til ad forsvara sinn gengna Herads dóm ad Reinivøllum í Kiós, þann 14da Octóbr. 1793, og bádir til ad heyra þeim í móti, af Sýslumanni V. Thórarinssyni fyrir Yfir-rettinum framsetiandi ákiærur þeirra affsøgdum dómum í þessu máli til upphafningar, og ad líða endilegann Yfir-rettar dóm. 3) Stefnist Løgmadur M. Olafsson, ad mæta fyrir Yfirrettinum, til ad forsvara allar sínar fyrirtektir og mótþróanlegt framhald í innihaldi Løgmanns-tollanna, ecki sál. Løgmannsins til skada, samt til ad heyra saksóknarans ákiærur þarámóti, og loksins til ad þola endilegann Yfir-rettar dóm, til straffs, sekta og málskostnadar betalings fyrir sín afbrot í þessari søk; stefnan var øllum vidkomendum eptir hennar uppáskrift birt, hún uppleſin og áteiknud lit. A. Framlagdi svo Sýslumadur V. Thórarinsson Herads- og Løgþingis- Prócessa og dóma, af hvørium, eptir hans ósk, var uppleſin hans siálfs Demonstratión í þessu máli, fyrir Herads- og Løgþingis-rettunum; Prócessinn uppáskrifadur og nót. lit. B. Vice-Løgmadur Grøndal mætir og framleggur vegna Løgmanns M. Olafssonar þessum af Sýslumanni L. Gudmundssyni í dag gefinn vitnisburd um, ad nefndur Sýslumadur hafi árid 1757 á Alþingi, betalad til Løgmanns sál. B. Markússonar, þá í Vestur-Skaptafells-sýslu sama vor innkrøfdu Løgmanns-tolla og vitnar til Løgmannsins sál. qvitteríngar her fyrir; vegna þessa vitnisburdar Sýslumanns Lýds, óskar Løgmadurinn, ad þessi søk verdi útsett til næsta árs Yfirrettar, þar ed hann ei geti framvísad þá af Sýslu-

manni Lýð vanstu qvitteríng eða kopíu af henni, en hafi ei híngað til vitað að þvílíkt bevísingar-skial være til; dócúmentið uppleſið, áteiknað lit. E. Hier til svarar Sýslumaður V. Thórarinsson, að Sýslumanns Lýðs framlagði vitnisburður, ei bevísi annað eður meira, enn þær í Próceſſana innfærðu qvitteríngar, og ei heldur hvört hann hafi tekið Lögmannstollana 1757 alleina fyrir sig, eður undir eins sinn Formann, og hvört sem heldur se, bevísist ecki Lögmanns Biörns rettur til tollanna það ár. Vice-Lögmaður Gröndal uppástendur þarámóti, vegna Lögmanns M. Olafssonar, að þeſſi qvitteríng, þá hún framkiæmi, mundi bevísa annað enn hinar, og það einúngis se ein gáta, að Lögmaður Biörn hafi móttekið þeim umvitnaða Lögmanns-tolli uppá Amtmanns Magnúsar vegna; her uppá begierðu partarnir Rettarins Interlócútorium, sem svolátandi var affagt:

Jafnvel þó að sú qvitteríng, sem Sýslumaður L. Gudmundsson væniſt að hafa í höndum frá sál. Lögmanni B. Markúsſyni, fyrir Lögmanns-tollsins giald af Vestur-Skaptafells-sýslu árið 1757 eður Lögmanns Biörns fyrsta embættis-ár, sem virkilegs Lögmanns, væri svo stýluð, að Lögmaður Biörn hefði qvitterað fyrir þenna Lögmanns-toll, sem sér siálfum og ecki sínum Formanni tilheyrandi, getur hann þó engannveginn sannað annara Lögmanna rétt til tollanna fyrirfram, allrahelst þar óvíst væri í hvaða skini hann átti

ætti eda eignadi sér opt umgétinn Lögmanns-toll af Skaptafells-sýslu, hvört heldur eptir samníngi vid sinn Formann, edur uppá annann hátt. Rétturinn hefir því einga von, ad nefnd qvittering, þó framkiæmi, mundi géfa nockra svoddan upplýsíngu í sökinni, hvar fyrir hún, móti prótesti Actóris, skyldi nú uppsetiast, heldur ályktar, ad hún nú strax hafi sitt fulla géngi.

Vice-Lögmadur Gröndal óskar ad innlegg Lögmanns M. Olafssonar, ásamt Lögþíngis dómi verdi upplesid, hvad og skedi. Sýslumadur B. Thórarinsson framleggur, sem Actor í þessari sök, innlegg af þessa dags dató, hvar í hann demonstrerar sinnar Principalindes Rett, sem innleggid siálft med sér ber, upplesid áskrifad lit. D. Vice-Lögmadur Gröndal framlagdi og eitt innlegg, hvar í hann uppástendur, ad þar sinn dómur se ad fullu á lögum grundvalladur, og þeirra rettu heimfærslu til sækianda og verianda roksemda, þurfi hann einkis forsvars vid, áskilur sér einasta ad mótsegia öllum þeim nýium roksemdum, sem fram kynnu ad koma fyrir þessum Retti, hans ádurnefnda dómi til nockurrar hneckíngar; þad upplesid áskrifast nót. lit. E. Vice-Lögmadur Gröndal framfærir vegna Lögmanns M. Olafssonar, ad þar þessi sök se á móti hans begieríng fyrirtekin, hafi hann eckert vídara til sakarinnar ad svara. Vice-Lögmadurinn prótesterar, ad nockur ný bevís verdi antekin til grundvallar fyrir Yfir-rettarins dómi, og setur til Yfir-rettarins med endilegum dómi, ad tileggia sér billegann málskostnad, samt eptir kríngumstædum

stædum álita Citanten, Sýslumann Vigfús, med passandi múlct, fyrir hans grófa og giálífa innlegg. Partarnir høfdu ei fleira fram ad færa í þessu máli, er þad því til dóms upptekid.

## Num. II.

Sama eptirmiddag mætti fyrir Yfirrettinum Sýslumadur V. Thórarinsson, og framlagdi eina Yfirrettar stefnu undir nafni Hra. Stiptamtmanns O. Stephánssonar og landsins innsigli, af 8da Januarí þ. á., hvar med Citanten stefnir, uppá Bóndans Jóns Jónssonar á Járngerdarstødum vegna, Løgmanni M. Olafssyni, fyrir ránga Løgdagsleggíngu í máli Jóns móti Arna Jónssyni, 1) til ad heyra Citantens ástædu móti honum. 2) Framkoma med sitt forsvar her á móti. 3) Til ad heyra sinn løgdags-leggíngar dóm upphafinn. 4) Til ad lída dóm til kostnadar og sekta, sem stefnan framar-med sér ber, upplesin áteiknast lit. A. Sýslumadur V. Thórarinsson framlagdi Herads og Løgþíngis-rettar Prócess í þessu máli, hann upplesinn eptir begíering Actóris, nót. lit. B. Sýslumadur Vigfús, sem Actor, framlagdi eitt innlegg undir dags dató, sem er hans Demonstratión med uppástandi, ad løgdagsleggíngar dómur Løgmanns M. Olafssonar verdi, sem óeptirettanlegur, kollkastadur frá þessum Retti; ad Løgmadur forskrifi Jóni Jónssyni sekina; ad Løgmadurinn dæmist í 200 lóda sylfurs bætur til næsta Hospitals, og til Prócess kostnadar, kosts og tæríngar fyrir Løgþíngis- og þessum Retti; innleggid upp-

uppleſið og uppáſkrifað nót. lit. C. Lögmaður M. Olafsſon framleggur eitt innlegg til ſorſvars ſínum lögdags-leggíngar dómi, og uppáſtenður að verða fríkiennður fyrir öllum ákiærum Citantens, ſamt þeſſ tildæmdur að ſvara ſín og Principals vegna ánægianlegum Próceſs koſtnaði; það uppleſið áteiknaſt lit. D. Viðara höfðu partarnir ecki fram að færa, undir endilegann Yfir-rettar dóm í þeſſari ſök, ſem á morgun verður affagður, var ſvo frá Rettinum gengið til þeſs í eptirmiddag. Actum ut ſupra.

S. Thórarinsſon.
St. Stephenſen. O. Stephánsſon.
B. Stephenſen. J. Arnórsſon.
G. Kétilsſon. Isl. Einarsſon.

## Num. III.

Sama eptirmiddag ſettiſt Yfir-retturinn, mætti ſvo Sýſlumaður V. Thórarinsſon, og framlagði eina Yfir-rettar ſteſnu undir, nafni Hra. Stiptamtmanns O. Stephánsſonar og landſíns innſigli, af 10da Febr. 1795, hvar með ſteſniſt Lögmaður M. Olafsſon að mæta fyrir Yfir-rettinum, til að ſorſvara ſitt Interlócútorſum og dóm, affagt í ſektaheimtu-máli Sýſlumanns S. Finnsſonar, móti Snæbirni Sigurdsſyni á Ösgerdi, að heyra Sýſlumanns Steindórs, ſem ſakſóknara, og Sýſlumanns V. Thórarinsſonar, ſem dómara í heraði, uppáſtand, og þar uppá Yfir-rettarins dóm að þola; í ſama máta ſteſniſt og Snæbiörn Sigurdsſon

 til



til ad heyra Citantanha ákiærur honum á móti í nefndri sök, og dóm ad líða eptir mála-vøxtum; stefn-an upplesin áteiknast lit. A. Løgmadur M. Olafsson setur í Rett, ad þar sá eini høfud-partur þessarar sakar Snæbiørn Sigurdsson, hvørr híngad til Yfir-rettarins er stefndur ásamt med Løg-manninum, ad svara her nú til þessarar sakar, hvørki mætir siálfur, ne nockurr hans vegna, uppástendur Løgmadurinn ad þessi søk verdi útsett til næsta Yfir-rettar; hvar uppá Sýslumadur Vigfús svaradi: ad svo sem Snæbiørn einkis annars forsvars þirfti, heldur enn þess, sem Løgmadurinn mundi framleggia fyrir sínum dómi, svo uppástendur Citanten ad søkin verdi nú endilega fyrirtekin. Hvar uppá þeir útbid-ia nú Rettarins Interlócútoríum.

## J krapti af Nl. 1 — 4 — 33 — álítst Sýslumanns V. Thórarinssonar Paa-stand ad vera løgmætt, hvar fyrir þessi søk skal strax fyrirtakast.

Framlagdi svo Sýslumadur Vigfús Herads- og Løgþíngis-Prócessa og dóma í þessari søk, þeir upplesnir áteiknast lit. B. Sýslumadur V. Thórarinsson framleggur og eitt innlegg undir nafni Sýslumanns S. Finnssonar, af 13da Júlí þ. á., hvar í hann fráleggur ser, ad hafa verid orsøk í þeirri Exceptíón, sem af ser leiddi Løgþíngis-rettar-ins Interlócútoríum af 15da Júlí 1794, heldur hoft einasta uppástadid, ad Snæbiørn yrdi einúngis dæmdur ad svara Prócess kostnadi; þad upplesid á-teiknast lit. C. Citanten framlagdi eitt innlegg af dags dató, hvar í hann leitast vid ad bevísa, ad sú

sú ser, þann 20ta Júlí 1793, anglýsta, og af Løgmanni M. Olafssyni með Jnterlócútorió, þann 15da Júlí 1794, antekna Løgþíngis-rettar stefna, hafi ser ólóglega birt verið; það uppleſið merkt lit. D. Sýslumaðar V. Thórarinsson framlagði enn eitt innlegg undir sínu og Sýslumanns S. Finnssonar nafni, sem er hans Demonstratíón í sókinni, sem það og siálft með ser ber, það uppleſið áteiknað lit. E. Framlagði Sýslumaður V. Thórarinsson enn eitt innlegg undir sínu og Sýslumanns S. Finnssonar nafni, sem er viðbætir til þess nærst undangángandi, það uppleſið áteiknað lit. F. Þessu innleggi og undangengnum fylgia Bilager frá lit A til lit. E inclús. Endilega framlagði Sýslumaður V. Thórarinsson uppá sín siálfs og Sýslumanns S. Finnssonar vegna, þeirra sameginlegt uppástand í þessu máli, grundvallað á her að framan allegerudum innleggium það sem tieð innlegg og Paastand fremur með ser ber, það uppleſið nót. lit. G. Løgmaður M. Olafsson framlagði eitt innlegg af dags dató, hvar í hann framfærir þær røksemdir og ástæður haun hafi haft til síns Jnterlócútorií og endilega dóms, það uppleſið áteiknað lit. H. Viðara høfðu partarnir ecki fram að færa undir endilegann Yfir-rettarins dóm, sem morgni síðar verður afsagður. Og þar dagur var úti, var frá Rettinum gengið. Actum ut supra.

S. Thórarinsson. J. C. Vibe.
St. Stephensen. O. Stephánsson.
B. Stephensen. J. Arnórsson.
G. Kétilsson. Jsl. Einarsson.

F 2 Num.

## Num. IV.

Þann 22ann Júlí ad Yfir-rettinum aptur saman-komnum, vóru eptirfylgiandi þrír Dómar afsagdir:

1) Í svo kalladri Lögmanns-tolla sök milli Eckiu sál. Lögmanns B. Markússonar Aunnu Dorotheu, og Lögmanns M. Olafssonar.

Orsök og undirrót þessarar sakar, er sú ólíka meining, sem vidkomandi málspartar hafa haft og hafa um þad, hvört þeir á sérhvöriu ári af Sýslumönnum innkölludu, og af Lögmönnum uppbornu Lögmanns-tollar, séu þeirra embættis-laun sama ár, edur þess nærst undangengna, ellegar, hvört einn Lögmadur kunni taka þá í síns 1ta embættis árs biriun? Þad fyrra hefir Lögmadur M. Olafsson uppástadid, og uppá þann grundvöll innihaldid þeim innkomnu Lögmanns-tollum árid 1791, fyrir Eckiu síns Formanns, Lögmanns sáluga B. Markússonar. Þessarar meiníngar hefir og Héradsdómarinn, Sýslumadur S. Pétursson ad nockru leiti verid, og þessvegna tildæmt Eckiunni einúngis nockra hlutdeild í Lögmanns-tollunum ársins 1791 eptir tiltölu, frá 1ta Janúarí til 9da Martsi s. á., en Vice-Lögmadur B. Gröndal hefir frádæmt henni allt tilkall til þeirra. Þau helstu rök, er þeir sam-
egin-

eginlega hafa fært til þessarar sinnar meiníngar, er a) Rescr. af 7da Apr. 1688, er fyrst uppábaud Logmanns-tollana, eptir hvoriu þeir uppástanda, ad Logmanns-tollarnir hafi verid sama ár af Sýslumonnum innkalladir og af Logmonnum uppbornir (hvad þó er óbevísad). b) Qvitteríngar Logmanns sál. B. Markússonar til Sýslúmannanna, hvaraf nockrar finnast í Hérads-Prócess nn innfærdar, er qvittera fyrir þess sama árs Logmanns-tolla, sem þær eru útgéfnar. Hérámóti hefir Eckiunnar tilskickadi Talsmadur, Sýslumadur V. Thórarinsson uppástadid, ad Logmanns-tollarnir eigi eins og annad bóndans útsvar af jordu og fé, svosem: Landskuldir, skattar, giaftollar, og s. fr. ad reiknast frá Fardogum til Fardaga, og séu fyrst áfallnir ad Fardaga-árinu lidnu, hvaraf fylgir; ad þó Logmadurinn sál. hafi qvitterad Sýslumenn fyrir sama árs Logmanns-tolla, er hafa til hans betaladir verid, hafi þeir þó tilheyrt hans embættis-launum fyrir nærst undangengid Fardaga ár, er hann þá fyrst hafi kunnad ad uppbera, neitandi, sem bædi órimilegu og aldeilis óbevísudu, sem þad og svo er, ad Logmanns-tollar hafi strax verid innkalladir sama ár og ádurnefnt Kóngsbréf af 1688 innkom. Sýslumadur Vigfús hefir og med adskilianlegum rokfemdum sýnt þad gagnstæda, ad þeir hafi ei ordid innkalladir 1688, Rescr. tilraki útbryckilega, ad sá þarf álagdi Logmanns-tollur megi takast hér eptir,

 og

og þessvegna enganveginn fyrir þá umlidnu tíd. Þad hafi og ómogulega fengid forbindandi krapt, fyrr enn þad var almennilega kunngiort; þessa meiníngu, ad Logmanns-tollar egi ad reiknast frá fardogum til fardaga, styrkia þau framlogdu Rescript af 26ta Aprilis 1737 svo vel sem eitt annad af 14da Aprilis 1759, líka einninn sú almennilega og alkunna venia, er þar um hefir frá fyrstu tíd verid, og er enn nú brúkud og vidtekin; og endilega sakarinnar egin náttúra, því ef einn bóndi skyldi á því sama ári, sem hann reiser bú, betala Logmanns-toll, og svo hvort ár, til þess hann aptur sellir bú, hefdi hann betalad einn Logmanns-toll meir enn honum bar, hvad ecki gétur hast stad, og mótstrídir Justitia distributiva í þessu almennings útsvari: og svosem engin log-grundud roksemd hefir af Eckiu sál. Logmanns Biørns Contra-portum til þess leidd verid, ad Logmanns-tollar egi og skuli ødruvísi reiknast, enn frá Fardogum til Fardaga, eda betalast fyrri enn adrir skattar og tollar; vid sérhvors giald-daga-árs útgáng, eins og hennar Talsmadur hefir uppástadid, og ad því leidt margar á logum og landsvana grundadar bevísingar; þá dæmist fyrir rétt:

Logmadur M. Olafsson skal vera skyldugur ad betala til Eckiu síns Formanns,

manns, Løgmanns sál. B. Markús-sonar svo mikid af þeim Løgmanns-toll-um, sem til hans eru komnir fyrir Far-daga-árid 1790 til 1791, sem svarar tíma-bilinu frá Fardøgum 1790, til Løgmanns Biorns daudadags hann 9 Mart. 1791, eptir afleggiandi ánægianlega bílogd-um reikníngi, er hann þar hiá sé skyld-ugur til ad stadfesta med sínum sálu-hiálpar eydi, ef þess óskad verdur; sømu-leidis løglegri rentu af þessari summu frá því stefnt var í Héradi, og til þess borgun skédur. Er svo þeim í málinu afsøgdu Hérads- og Løgþíngis-dómum hér med fráfallid, ad svo miklu leiti þeir frádæma Eckiunni Løgmanns-tollana fyrir tiltekinn tíma. Próceß-kostnad til Hérads-réttarins, betalar Løgmadur M. Olafsson med 10 rdlm. til sakfókn-arans Eckiu sál. Løgmanns B. Mark-ússonar. Sýslumadur S. Péturs-son, sem med ad frádæma henni Løg-manns-tollana frá Fardøgum 1790 til 1ta Jan. 1791, hefir orsakad sak-

arinn-

arinnar innstefníng fyrir Logþíngis-rétt-ínn, betali þann kostnad med 4 rdlm. og endilega Vice-lögmadur B. Grøndal málsins sókn fyrir Yfir-réttinum med 6 rdlm; allt þetta skal af vidkomendum til velnefndrar Eckiu, edur hennar erfíngia, vera lokid innan 6 vikna frá þessa dóms auglýsíngu, undir adfør eptir lögum.

2.) Í Logdags-leggíngar Máli, milli Jóns Jónssonar, og Fríhøndlara Árna Jonssonar í Grindavík.

Af þeim fyrir Yfir-réttinn framlogdn Prócessum og skiolum í Logdagsleggíngar máli, milli Jóns Jónssonar yngra og Fríhondlara Arna Jónssonar í Grindavík er birtun og framgángi þessa máls fyrir Logþíngis-rétti svo varid: ad Sýslumadur í Rángár-þíngi, sem Talsmadur Jóns óskar undir 25ta Octóbr. og vdlast þann 4da Decembr. 1792, eina Loaþíngis-réttar stefnu, hvarmed sá af Stiptamtmanni O. Stephánssyni, í forfollum Hérads-dómara S. Pêturssonar setti dómari S. Olafsson, stefnist ad mæta fyrir Logþíngis-réttinum 1793, til ad forsvara sinn ad Járngerdarstodum þann 16da Júlí 1792 afsagda Hérads-dóm í skuldaheimtu- og orda-máli, milli Árna Jóns-

sonar

sonar og Jóns yngra; med somu stefnu kall-
ast og fyrir Logþíngis-réttinn nefndur Arni
Jónsson, til ad heyra þær af Jóns Tals-
manni í Rétt setiandi ákiærur og ástædur þeim
ámóti, og bádir til ad líða endilegann Log-
manns Dóm. Þann 9da Júlí 1793, lætur
Sýslumadur V. Thórarinsson framleggia þessa
fyrir innstefndum hlutadegendum loglega aug-
lýstu stefnu; enn þar ed sá eini innstefndi hof-
ud-partur þessarar sakar Arni Jónsson, hvorki
siálfur, edur fyrir Fullmektugann mætti vid
Logþíngis-réttinn þetta ár, leagur Logmadur
M. Olafsson þann 22ann Júlí s. á. nefnd-
um Arna Logdag til næstkomanda Logþíngis
1794 og dæmir hann undir eins skyldugann
til ad framkoma med þau logleg forfoll, sem
hafi hindrad hann frá ad mæta fyrir Logþíng-
is-réttinum, til þess í stefnunni tiltekna tíma,
samt Sýslumann V. Thórarinsson til ad bera
umsorgun, ad Logdagsleggíngin verdi vidkom-
endum loglega birt. Þann 16da Júlí 1794,
mætir Sýslumadur V. Thórarinsson í Log-
réttu, og framleagur þar stefnu í þessu máli
med uppáskrifadri Logdags-leggíngu loglega birtri
Arna og þeim setta Dómara, uppástendur
þar hiá, ad Arni sanni sín forfoll frá ad mæta
fyrir Logþíngis-réttinum 1793, og þessa árs
til þá nálægs tíma, edur og dæmist til þeirra,
med Rescriptinu af 28da Aprílis 1784 áqvednu
bóta, ádur honum leyfist ad framkoma nockru
forsvari í sok sinni; enn framar uppástendur

 Actor,



Actor, ad Arni dæmist eptir því, í Actors innleggi 1793 giorda uppástandi og þeim bevísingum, sem þá framkomu, þar hann af eintómri Þverskallan edur forakti vid Kóngsins Rétt, hafi hvorki mætt né mæta látid. Hér til fellur sá Løgmanns úrskurdur: ad Arna géfist sá í Løgum tilekni seinasti frestur til þess 22ars Júlí s. á. til hvørs tíma søkin útserjist. Þann 22ann Júlí mætir Sýslumadur V. Thórarinsson í Réttinum, og prótesterar, ad þau innlegg, sem sá setti dómari og Arni Jónsson hefdu til Réttarins innsendt, verdi tekin til Prótócolls, þar hvørigur mæti né Arni framkomi med sín forføll, heldur uppástendur Actor ad søkin takist upp til dóms, hvoriu sídara Løgmadur lofar; en þegar til efna kémur, leggur Løgmadur M. Olafsson þann 24da Júlí móti próresti Actóris, bádum portunum løgdag á ný til Løgþíngis 1795 í stad þess ad dæma endilega í søkinni, grundvallar þessa sína Løgdags-leggíngu þará, ad stefnandans ákiærur séu óbevísadar Arna á móti og dómaranum, samt á fleirum af Løgmanni ógreindum orsøkum. Frá þessum løgdags-leggíngar dómi appellerar Sýslumadur V. Thórarinsson þann 26ta s. m., óskar þann 14da Nóvembr. 1794 einnar Yfir-réttar stefnu, sem hann ødlast þann 8da Janúarí 1795, hvarmed Løgmadur M. Olafsson stefnist til ad mæta fyrir Yfir-réttinum í ár, og þar ad forsvara sinn løgdags-

legg-

leggíngar dóm, heyra stefnandans ástædur og Yfir-réttar dóm þola til sekta og kostnadar. Í innleggi af 21ta þ. m. leitást Actor vid ad bevísa, ad eptir Nl. 1—10—1— hafi Arni átt ad sverja sin forsøll frá ad mæta 1793, hvad þó Løgmadur hafi ei áskilid ské skyldi, og ad Arna hefdi eptir Nl. 1—4—32— samanbornum vid Forordn. af 12ta Apr. 1751, ei átt optar løgdagur ad leggiast enn einusinni edur til Løgþíngis 1794, ad í máli þessu hefdi átt endilegur dómur ad ásegiast eptir þeim bevísingum hérads prócess og Actóris innlegg med sér báru, samt ad beggia parta samþycki þurfi til uppsetníngar mála, eptir Nl. 1-4-24. hvort hann, sem prócessinn sýni, aldrei hafi géfid; uppástendur því Actor Sýslumadur V. Thórarinsson í krapti af ádurnefndum laga-stødum: ad løgdags-leggíngar dómur Løgmanns M. Olafssonar, sem óeptirréttanlegur, verdi af Yfir-réttinum kollkastadur, Løgmadur dæmdur til ad forfríska Jóni søkina, ef þorf gioríst, og ad betala honum kost og tæríngu og prócess kostnad, og endilega Løgmadurinn dæmdur til ad betala 200 lód sylfurs til nærsta Hospitals fyrir óloglegann sakarinnar drátt. Løgmadur M. Olafsson framfærir þarámóti sínum løgdags-leggíngar dómi til forsvars, ad eptir Nl. 1—4—32— og Forordn. af 19da Aug. 1735 hafi Arna átt løgdagur ad leggiast, og ad þær í Hérads Actinn og Actors innlegg innfærdu bevísingar, ei hafi verid svo

 full-

fullkomlegar, ad hann kynni þará ad grunda sinn endilegann Logþingis-réttar dóm, samt ad sinn tilgángur um logdags-leggíngu í þad sinn hafi verid ad vardveita rétt Jóns Jónssonar, hvad ei var háns, heldur Jóns Talsmanns skylda. Logmadurinn áleit sér logdags-leggínguna því óhultari, sem hann af þeim Sellendsku Landþings Acter og Juris Consulti Højers Collegio þykist í odrum londum fundid hafa þetta brúkad Rétt frá Rétti. En þared Yfir-rétturinn, sem náqvæmlega hefir yfirvegad beggia partanna ástædur í þessu máli, einasta verdur ad hafa sér fyrir réttar-snúru í sínum dómi hérad-lútandi No:sku-log og kónglegar Forordn, en ei eintóm lauslega framborin dæmi; svo gétur hann ei betur séd enn ad skuldaheimtu- og orda-málid milli J. Jónssonar og Fríhondlara Arna Jónssonar í Grindavík, hefdi átt endilega ad dæmast fyrir Logþingis-rétti 1794, eptir Nl. 1—4—32—eptir þad, ad í því var ádur lagdur logdagur, og ad Logmadur M. Olafsson hafi med því á ný ad leggia logdag í málinu, en ecki ad taka þad til endilegs dóms eptir Actors uppástandi, giort sig sekann í réttarspillir; dæmir því Yfirrétturinn:

**Logmadur M. Olafsson, sem móti prótesti Actors, Sýslumanns V. Thórarinssonar, hefir uppihaldid þessu** máli,

máli, og þar med spillt rétti Jóns Jónssonar í Grindavík, skal eptir N. I--5--9-- betala 60 lód sylfurs, hvaraf 20 tilfalli Jóni, en hin 40 undir Kóng, forfríska Jóni málid ef þørf giøriſt og hann þeſs óſkar, ſamt fyrir ógrundadann og af þeſſum Yfir-rétti aldeilis upphafinn løgdags-leggíngar dóm, betala eptir Forordníngunni af 16da Nóvembr. 1764 til Júſtits Kaſſans pro meliore informatione 4 rdli. Próceſs koſtnad til þeſſa Yfir-réttar, betalar Løgmadur M. Olafsſon Actóri med 6 rdlm.; ſkulu þeſſar bætur allar loknar vera innan 8 vikna frá þeſſa Yfir-réttar dóms løglegri birtíngu undir adfør ad løgum.

3) Í Sektaheimtu-máli Sýſlumanns S. Finnsſonar, hiá bóndanum Snæbirni Sigurdsſyni á Osgérdi í Arneſs-ſýſlu.

Undir-rót til þeſſa ſekta-máls úr Arneſsſýſlu móti bóndanum Snæbirni Sigurdsſyni, nú búandi á Osgérdi innan ſomu ſýſlu,

sú, ad tiedur Snæbiörn ei hefir til réttrar tídar betalad Sýslumanni S. Finnssyni á sig felldar hördóms-sektir og Þing-giald innan hans sýslu, og þannig skulda-þriótur ordinn vid velnefndann Sýslumann, sært sig búferl-um úr Arneß- til Rángárvalla-sýslu árid 1779, hvarfyrir Sýslumadur Steindór hefir med próceß tiltalad þessum Snæbirni, og fengid Sýslumanns í Rángár-þingi V. Thór-grinssonar dóm yfir honum genginn ad Þiód-ólfshaga þann 1ta Sept. 1792, til sektanna og Þing-gialdsins' útgialds med vidliggiandi á-logum fyrir þriótskuna. Þessi Sýslumanns Vigfúsar Hérads dómur hefir Snæbirni fund-ist ofhardur, og hann því fengid dómnum inn-stefnt fyrir Logþingis-réttinn, er haldinn var hér vid Öxará árid 1793, en siálfur fram-andi og fávís í logum, sókt sinn maka, til ad undirbúa málid, líklega skyldann þeim, er vor gomlu Landslog í Mannh. 17da kap. á-varpa med hefdarlausum titli, hvaraf útfall-id vard samstemma, ad Logmadurinn í sudur og austur Logdæminu, M. Olafsson, dæmdi, eptir uppástandi, hans stefnu ónýta hér á Log-þingi þann 18da Júlí s. á., og hann fyrir ó-loglega innstefning sekann 6 rdlm. til sakar ad-ils og dómara í héradi. Ad þessum bótum lúktum, sær þá Snæbiörn enn á ný, ad sam-þycki sakar-adilans, Sýslumanns Steindórs, og samhlióda Forordn. af 19da Aug. 1735, §. 10. og Reskr. af 19da Dec. 1749 sinni

hér

hér greinda máli innstefnt til næsthaldandi Logþíngis-réttar 1794, hvoria stefnu hann framvísadi og birti Sýslumonnunum Steindóri og Vigfúsi hér á Logþíngi þad fyrrnefnda ár 1793, sem bádir og hafa hér uppá stefnuna skrifad sitt Vidisse þann 20ta Júlí s. á., samt kopíur af henni medtekid undir eins. Ad svoddan undirlagi kémur þessi sök enn á ný hér í Actión þann 14da Júlí 1794 fyrir Rétti Logmanns M. Olafssonar, þá Héradsdómarinn Sýslumadur Vigfús, er mætir uppá sín og sakar-adilans Sýslumanns Steindórs vegna, framsetur þá Exceptión fyrir Réttinum, ad stefnan sé sér ecki birt á sinu log-heimili, eptir Nl. 1-4-2. 22. 25. heldur hér á Logþíngi, hvarfyrir hann uppástendur, ad tjed stefna verdi af Logþíngis-réttinum ólogleg álitin, en sakar adilinn Sýslumadur Steindór í innleggi fyrir Logþíngisréttinn í sama sinn framlogdu, qvedst ei vera því á móti, ad sokin þá til dóms prócederist, hvar uppá Logmadurinn M. Olafsson afsagdi eitt Interlócútorium þann 15da Júlí nærst eptir, sem skyldadi báda þá innstefndu Sýslumenn þá til málsins ad svara, hvorin Sýslumadur V. Thórarinsson og svo hlýddi og útageradi hér sokina til dóms undir sinu og Sýslumanns S. Finnssonar nafni þann 17da Júlí s. á., án þess ad angéfa sig í neckru med þad óánægdann. Endilegann dóm afsagdi því Logmadurinn M. Olafsson í þessari

þannin

þannin útkliádri ſök Snæbiørns Sigurdsſonar þann 25ta Júlí ſ. á., hvörium dómi, áſamt Lögmannſins ádurnefnda Interlócútorió ſakar-adilinn Sýſlumadur S. Finnsſon og dómarinn í héradi Sýſlumadur V. Thórarinsſon háfa med einni Yfir-réttar ſtefnu, útgéfinni af Hra. Stiptamtmanni O. Stephánsſyni, ſem Praeſide í Landſins Yfir-rétti, undir hans nafni og landſins ſigneti þann 10da Febr. þ. á., híngad fyrir þennann Yfir-rétt innſtefnt; undir framhald ſakarinnar og hennar Actión hér fyrir Yfir-réttinum, hafa hér tjedir ſækéndur fundid þad ad Lögmanns M. Olafsſonar Interlócútorió af 15dá Júlí ſ. á. ad þad innihaldi ſér og ſinni virdíngu nærgángandi talshætti, ſamt útlegdi rángt lagagreinirnar, M. 1 = 4 = 22. 25. og á móti ſiálfum dóminum af 25ta ſ. m., bædi ad hann ſé ofiinur í ollu því er hann víkur frá Sýſlumanns Vigfúſar afſagda Hérads dómi í ſökinni, ad Piódólfshaga í Rángár-þíngi þann 1ta Sept. 1792, og ad hann yfirſkrídi þau takmörk edur atridi Hérads dómſins, er Lögmanni var leyfilegt um ad dæma, ſvoſem hann hafi ei mátt annad uppákénná í ſínum dómi, enn þad er Snæbiørn áfríadi í ſinni fyrſtu ónýttu ſtefnu, því þau þá áhrærdu atridi Hérads dómſins hefdu útſtadid Fatalia appellationis, þá Snæbiørn aptur ſtefndi, eda ſína ónýttu ſtefnu endurnýiadi. Af ſamburdi þeſſara hér fyrir Yfir-réttinum framfærdu áklag-

Klagana og Lögmanns Magnúsar forsvari vid login siálf, finnst ad þær móti Lögmannsins meirnefnda Interlócútorió af 15da Júli f. á. framfærdu sakargiptir eru ei svo mikilvægar, ad þær kunni ad koma Loamanninum edur hans dómi í hofudsokinni til hneisu eda hneckirs, allrahellst ad vid tjed Interlócútorium var í upphafi af Sýslumanni Vigfúsi acqviescerad og sokinni þar vid undir endilegann dóm framhaldid; enda álitst Sýslumadur Vigfús svo vel sem Sýslumadur Steindór med þeirra uppáskriftum á Logþíngis stefnuna, ad hafa svoddan hennar auglýsíngu fyrir gylda antekid. Hvad þann ákiærda endilega Logþíngis dóm í sokinni áhrærir, þá gaf Forordn. af 19da Aug. 1735 §. 10, og Reser. af 19da Dec. 1749, Snæbirni Sigurdssyni fríheit til ad fá allt þad forbetrad med nýrri stefnu, sem vanskapadi hina óhyttu, og var hann því ei bundinn vid þá 4ra pósta, er hann nefndi, heldur mátti aldeilis umsteypast eptir kríngumstædum, hvarfyrir Logmadur Magnús, eptir þeirrar anteknu stefnu innihaldi, hafdi og fríheit til ad uppákénna, svo vel þann í Hérads dóminum innfærda sakafalls-reikníng, sem og um renturnar og annad meira er Hérads dómurinn inniheldur. Sakafalls reikníngin eptir Stóradómi, finnur nú Yfir-rétturinn hér í landi in praxi med ýmsu móti, hvad allt kémur af þess myntada sylfurs nidurstígna gyldugleika, edur valore extrinseco í móti því, sem hann

H var,

var, þá tjedur Stóridómur var saminn, og af Kóngi stadfestur; þó eru þeir flestu Sýslumenn hér í landi, sem nú eru sakafallsins Forpaktarar, er taka 8 rdli. specie í einfalda hórsdóms-sekt, en særri hinir, er reikna hana til 12 rdla. specie, hvorr fyrri reikníngur er því réttari enn hinn sídari, sem hann er eldri, því hann hefir varad frá Stóradóms løgteknïngu allt híngad til, en hinn er fyrir fáum árum uppkominn, og kann því ei løg-gyldur metast, fyrr enn Kóngi siálfum þócknast hann med útþryckilegum løgum ad vid makt kénna, hvad enn er ecki skéd, ennþótt Forordn. af 3ia Júní 1746, alleina í tilfelli af óhlýdni vid Hreppstióra, géfi átillu til sliks útreiknings, hvar vid og bætist, ad sá fyrri útreikníngur er meir samstemmá vid landsins fátækt enn hinn sídari, og því einnig med løganna mildi vid hina seku samhlióda; rentur eda rentu-rentur í svoddan søkum, sem Snæbiørns, finna ei medhald á þeim til þessa lands sérílagi útgéfnu løgum eda Forordníngum, ecki heldur útþryckilega skattkrafinn af búhokri hans ad Sydri-grøf, árid 1781, er alleina svaradi 3½ hundr. í tíund, er ei løglega hefir verid áskrífud, en fæddi 3 menn, þar hann sama ár svaradi skatti af sínu adalbúi, sem siá er af Kóngs þegnsk. 1ta kap., eins þar Snæbiørn hafdi ei útþryckilega skuldbundid sig til ad betala sekt barnsmódur sinnar, kunni hann ei þartil ad neydast; því ad tiltali, andsvørum og þessarar sakar øllum kríngum-

stæd-

stædum vandlega athugudum dæmist og rett ályktast:

Dómur Lögmanns M. Olafssonar, genginn hér vid Öxará þann 25ta Júlí 1794, er af þessum Yfir-rétti stadfestur, svo ad útlát Snæbiorns Sigurdssonar á Osgérdi í Arness-sýslu nú búandi, til Sýslumanns S. Finnssonar, skulu þareptir útreiknast og afbetalast, og af Snæbirni svarast til Sýslumanns S. Finnssonar, innan nærstkomandi 6 vikna frá þessa Yfir-réttar dóms auglýsingu undir adför og Execútíón eptir lögum. Prócess kostnadur til þessa Yfir-réttar, er á allar sídur upphafinn, samt Lögmadur Magnús frífundinn frá ad svara þeim uppásteduu bótum til stefnanda fyrir sitt Interlócútoríum í þessari sök afsagt. Hvad hér í Yfir-réttinum hefir demonstrerad verid um sakafall í einföldum hórdómi, og þó ei uppástefnt, edur hvad annad vera kann søkinni óvidkomandi,

andi, er sett til sidu og fráviſad.
*Actum ut supra.*

S. Thórarinsson. J. C. Vibe.
St. Stephensen. O. Stephánsson.
B. Stephensen. J. Arnórsson.
G. Kétilsson. Jsl. Einarsson.

Lögmadurinn M. Olafsson og Vicelögmadur B. Grøndal declarera bádir sameinlega Appell frá dómnum í Lögmanns-tolla sökinni, sömuleidis Lögmadur Magnús, í lögdags-leggíngar málinu frá Grindavík; begéra prócessana beskrifada innan laga termins; 3rd. depóneradi Lögmadur M. Olafsson í Réttinn, til ad fá prócessana beskrifada innan laga termins, en fékk afsvar, útan sá hálfi betalingur kiæmi fyrifram. *ut supra,*

*testerar* B. Stephensen.



Annó 1796 þann 20ta Júlí, var Yfir-rétturinn settur undir Præsidíó Stiptamtmanns O. Stephánssonar, med undirskrifudum Assessórer.

Mætti fyrir Yfir-rettinum Sýslumadurinn í Rángárþíngi V. Thórarinsson, og framlagdi eina Yfirretts

ir-rettar stefnu undir nafni Stiptamtmanns O. Step-hánssonar og landsins innsigli, dat. 22ann Martsí 1796, hvar med stefnist 1) Løgmadur M. Olafsson til ad heyra fyrir Yfir-rettinum Citantens ástædur og ákiærur, svo vel móti hans fyrir Løgþíngs-is-rettinum giørdri álÿktun þann 17da Júlí 1794, sem dómi þann 23ia Júlí 1795, samt ad framkoma med sínar ástædur, sömu til forsvars. 2) Til ad heyra sinn nefnda afsagda dóm og dómara adgiørdir í málinu af Yfir-rettinum upphafdar, samt ad betala til Jóns Eiríkssonar á Holtum allann honum í sama, fyrir Løgmannsins tilstilli, orsakadann prócess kostnad, samt kost og tæríngu fyrir Yfir-rettinum, eptir því, er þá af Citantenſverdur uppástadid. Vegna prócessins innstefnast og ad mæta fyrir Yfir-rettinum, á sama stad, ár og dag í þessa árs Júlió, þá sokin verdur fyrirtekin af Yfir-rettinum, Sÿslumadurinn J. Helgason, svo vel sem erfíngiar Olafs sáluga Magnússonar, Sigurdur og Þórarinn Olafssynir, samt Sigurdur Sigmundsson, til ad heyra fyrrnefndann dóm-Løgmanns M. Olafssonar hreint upphafinn, sem stefnan fremur sÿnir, hún uppleſin áteiknud lit. A. Samhliódandi Yfir-rettar stefna og af sama dató var og uppleſin, uppáteiknud, ad løglega hefdi birt verid Sÿslumanni J. Helgasyni, og samhlióda kopía afhendt erfíngium Olafs Magnússonar, sem stefnan fremur sÿnir, áteiknud lit. A. Løgmadur M. Olafsson framlagdi og eitt innlegg af þessa dags dató, hvarí hann prótesterar ad svara til þessarar sakar, sem óløglega innstefndur þar til, sem innleggid enn fremur siálft útvísar, þad

uppsesid áteiknast lit. B. Hvar uppá Sýslumadur V. Thórarinsson framlagdi bref Jóns Eiríkssonar á Holtum til sín af 28da Maí þ. á. til sýnis, í hvöriu hann gefur honum fullmakt til ad framhalda sínu máli nú fyrir þessa árs Yfir-retti. En Logmadur M. Olafsson prótesterar nú sem fyrri, ad svara til þess, þar Sýslumadurinn hafi enga af Yfirvaldinu útgefna Authorísatión þar til. Hvar uppá bádir partar, arnir begjera Yfir-rettarins Interlócútoríum, sem svo látandi var assagt:

Þá fullmakt, sem Løgmadur M. Olafsson hefir óskad framlagda frá Jóni Eiríkssyni á Holtum, um innstefningu þess Løgþíngis-réttar dóms, sem. genginn er 1795 í Rana málinu, hefir Sækiandinn, Sýslumadur V. Thórarinsson framlagt og sýnt í bréfi Jóns Eiríkssonar af 28da Maí þ. á, med hvøriu hann bidur hann framfylgia þessu máli, og qvedst þar med ítreka fyrrgiørda bón sína þarum í ádursendu brefi, hefir Løgmadurinn og þessu þar eptir ecki mótmælt, heldur krafist, ad hann sýndi nú Yfirvalds skickun til ad gánga hér í Rétt í Rana málinu, hvad Yfir-rétturinn metur því ónaudsynlegra, sem Sýslumadur V. Thórarinsson hefir í mørg ár sókt þetta mál fyrir mørgum Løgþíngis- og høldnum Yfir-réttum, þarámedal siálfs Løgmanns M. Olafssonar, án þess ad honum hafi fyrr edur sídar mótmælt verid, vegna skortandi Yfirvalds

valds skickunar, hvør ed nú virdist honum óparfleg til ad fá søkina til lykta leidda, sem annars yrdi lángvarandi, og Yfirréttinum einúngis til uppihalds, skal þad því nú fyrirtekid og dæmt verda.

Framlagdi svo Sýslumadur V. Thórarinsson Herads- og Løgþíngis- prócessa gengna í Rana málinu, ásamt dómi af 23ia Júlí 1795, afsøgdann af Løgmanni M. Olafsyni, vóru þessi Acta øll merkud lit. C. Þar næst framkom innlegg Sýslumanns V. Thórarinssonar, af dags dató, innihaldandi hans sókn og réttar krøfu í þessu máli, þad upplesid áteiknad lit. D. Annad innlegg af sama dató framlagdi Løgmadur M. Olafsson, sínum Løgþíngis dómi til forsvars, med því uppástandi, sem þad gløggvast sýnir, þad upplesid áteiknad lit. E. Þar med fylgdu nockrar af Løgþíngisskrifaranum attesteradar greinir af ýmsum públik Acter, áskrifadar lit. F, hvar vid Sýslumadur V. Thórarinsson uppástendur ad þad af þessum greinum, sem prócessinn ecki innihaldi, verdi ecki álitid, en Løgmadurinn óskar ad þær náqvæmlega adgætist, sínum heimvísunar dómi til styrkingar, bidiandi þar hiá um frest til morguns til ad svara Sækiandans innleggi, hvar frá hann þó aptur fiell, og qvadst ánægdur med, ad endilegur dómur yrdi í søkinni afsagdur, sem fiell svo látandi:

Med Løgþíngis-réttar dómi af 19da Júlí 1790, er Sýslumadurinn J. Helgason, fyrir óløglegar dómara adgiørdir, í því gamla Rana máli, dæmdur óhæfilegur ad medhøndla

höndla það framar, undir eins er því til nýrrar rannsóknar og fullnaðar dóms, af oðrum útnefnandi óviðkomandi dómara aptur í hérað heimvísað; enn að síður tekur Sýslumaður Jón Helgason sér fyrir hendur, siálfur að taka þar í nýtt próf og vitnaleiðslu; lætur mæla þrætulandið og semja ný landamerki, þann 16da Aprilis 1792, og afheyra þar eptir vitni þann 20ta s. mán. Í inngéfinni stefnu beiðni af 1ta Octóbr. 1793 til Lögmanns M. Olafssonar, og úrgéfinni Lögþingis-réttar stefnu, þann 21ta Octóbr. sama ár, laagdri í Rétt þann 16da Júlí 1794, átelur Sýslumaður V. Thórarinsson, ecki einúngis þessar seinni óleyfileau dómara aðgiörðir Sýslumanns J. Helgasonar, heldur og þann fyrir laungu með fyrrnefndum Lögþingis dómi með öllu ónýtta Hérads dóm hans af 24ða Octóbr. 1788, hvorn honum stefnist að heyra upp aptur ónýttann, með áleggiandi nýium bótum. Í málinu er af Lögþingis-rettinum 1794 lagður logdagur til Lögþingis 1795 hlutadegandi máls-portum, og loksins dæmt af Lögmanni M. Olafssyni þann 23ia Júlí sama ár, að Rana málið skuli með giörandi Lögmanns áreið í Héraði dæmast, enn þótt Lögmanni eins lítið viðkiæmi að giöra áreið, ellegar gánga þesshátt- ar dóma í Héraði, medan enginn undirdómari hafði áður á ný í málinu dæmt, eptir þeim óraskaða Lögþingis dómi frá 1790, og

Sýslumanni Vigfúsi vidkom ad stefna fyrr snýttum Hérads dómi J. Helgasonar, gengnum 1788, til nýrrar ónýtíngar og bóta; því er hér í audsien yfirsión, bædi Lögmanns M. Olafssonar og Sýslumanns V. Thórarinssonar í seinni medhondlun þessa máls; dæmist því rétt:

Þessu Rana máli er af Yfirréttinum enn þá frávísad til endilegs dóms í Héradi, beint eptir Lögþíngisréttarins dómi af 19da Júlí 1790, sem stendur í fullu gyldi, en Lögþíngis-réttar dómur Lögmanns M. Olafssonar af 23ia Júlí 1795, er upphafinn. Fyrir óleyfilegar og bannadar Dómara adgiordir vid þetta mál í Héradi, þvertámóti Lögþíngis dóminum af 1790, er Sýslumadur Jón Helgason ecki til þessa Yfir-réttar stefndur nú dóm ad lída, hvors vegna

 þær

þær mega fyrir vidkomandi Rétti á ný ákiærast, en málskostnadi er af Yfir-réttinum fráfallid.

*Actum ut supra.*

O. Stephánsson.
J. C. Vibe. M. Stephensen.
B. Grondal. B. Stephensen.
J. Jacobsson. G: Kétilsson.

---

Ad þessi Yfir-réttar Acta séu rétt útskrifud af Yfir-réttar Prótócollnum, fyrir þessi framanskrifudu 5 ár, og honum samhlióda

vitnar

B. Stephensen.

